# Skóla Hátíd

í minníngu

## Fædíngar-dags

vors allranádugasta Konúngs

# Fridriks Sjötta,

þann 28da Januarii 1838,

er haldin verdur þann 4da Februarii 1838;

bodúd af

## Kénnurum Bessastada Skóla.

---

Níunda, tíunda, ellefta og tólfta bók

af

## Homeri Odyssea,

á íslenzku útlagdar af

Sveinbirni Egilssyni, Adjúnkt.



---

Videyar Klaustri, 1838.

Prentad af Prentara Helga Helgasyni,

á kostnad Bessastada Skóla.

# Odysseifs drápa.

## Niunda bók.

Inntak: Odysseifur segir frá ferdum sínum, og fyrst frá því, hvørr og hvadan hann sé. Hann fór frá Trójuborg, og kom til Ríkonalands, og rændi þar Ismarus-borg; søfnudust þá landsmenn móti honum, og héldu vid hann orustu, flýdi hann vid þad á burt, ad þar láu eptir 72 menn hans. Sidan hrakdist hann til Lótófaga, og þadan til Kyklópalands. Þar drap risinn Polyfemus, son Posídons, 6 førunauta hans, en Odysseifur hefndi sín svo, ad hann blindadi risann, og flúdi vid þad á burt.

---

Þá rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: voldugi Alkínóus, frægastur allra manna! Sannarlega er þad unun, ad hlýda á slíkan saungmann, sem þennann, er svo hefir føgur hljód, ad þvílíkast er sem gudarødd sé. Því aungvan hlut ætla eg skemtilegra, en þegar allur lýdur er gladur, og bodsmenn sitja hvørr vid annars hlid, og hlýda á saungmanninn í høllinni; og hafa bord hjá sér, hladin braudi og kjøti, en byrl-

árinn eys víni af skaptkerinn, skenkir á skálar, og ber umkríng. Þetta virdist mér vera einhvør hin mesta unun. En þér leikur hugur á ad frégna ad mínum hørmulegu mannraunum, til þess eg skuli enn meir andvarpa og gráta. Frá hvørju skal eg þá segja þér fyrst, og frá hvørju sídast? þar sem þeir himnesku gudir hafa látid mér svo margar hørmúngar ad hendi bera. Nú mun eg fyrst segja til nafns míns, svo þér vitid, eins og adrir, hvørr eg er; get eg þá sídar meir, ef mér verdur lengra lífs audid, verid gestfélagi ydar, enn þótt eg egi heima lángt hédan. Eg em Odysseifur Laertesson, og er eg mønnum alltídur sökum minna margvíslegu vélabragda, og fer frægd mín allt til himins. Eg á bygd á hinni vídsýnu Itaku; á henni er fjall eitt, er heitir Neríton, þad er kvikt af laufi, og mjøg audkennilegt. Margar liggja þar eyar umhverfis, og skammt í milli, Dúlíksey, Sámsey og Sakyntsey, hún er skógi vaxin. Sjálf er eyan láglend og liggur lángest í hafinu gegnt næturheimi (nordri), en hinar eyarnar liggja annarsvegar gegnt dagsheimi og sólarheimi (sudri). Itaka er grýtt land, en fædir þó upp marga vaska drengi, og sé eg ekkert land, sem mér þyki indælla, en þessi fósturjørd mín. Halda vildi hún mér hjá sér, hin ágæta gydja Kalypsó: og eins vildi sú vélráda Kirka í Eý, ad eg stadfestist hjá sér og fengi sín; en þó gátu þær aldrei talid svo um fyrir mér. Þannig verdur eingi hlutur indælli manni, en fødurland hans og foreldrar, og jafnvel þó hann egi gott bú í útløndum fjærri foreldrum sínum. Nú skal eg segja þér frá ferdum mínum og þeim mørgu mannraunum, er Seifur lét mér ad hendi bera á heimfør minni frá Trójuborg.

Frá Ilusborg fékk eg hradbyri til Kíkonalands, og lendti vid Ismarusborg; rændi eg þar borgina og drap borgarmennina; tókum vér í borginni konur og mikid fé, og løgdum til hlutskiptis, svo allir bæri jafnan hlut úr býtum. Lagdi eg þá þad rád til, ad vér skyldum leita burt þadan í skyndi; en menn mínir voru svo óforsjál- ir, ad þeir fóru ei ad ordum mínum: høfdu þeir mikl- ar víndrykkjur, og slátrudu á sjáfarstrøndinni mørgum saudum og vagandi bjúghyrndum nautum. Þá fóru Kíkonar, og kølludu á adra Kíkona, sem voru ná- búar þeirra og bjuggu uppi í landinu; þeir voru fjøl- mennari og hardfengari, var þeim jafntamt ad berjast í fólkorustu á hervøgnum, sem á fæti, ef því var ad skipta. Sídan komu þeir med morgunsárinu, og voru ei færri en lauf þad og blóm, er þýtur upp á vortíma; áttum vér, vesælir menn, þá fyrir hendi þann hardan skapadóm Seifs, ad vér skyldum komast í mikla raun. Þá þeir høfdu tekid sér stødu, vøktu þeir bardaga hjá þeim örskreidu skipum, og skutust menn á eirslegnum spjótum. Medan morgun var, og dagur fór vaxandi, stódum vér fast fyrir og vørdumst, þó lidsmunur væri. En er sólu sveif nær akneytalausnum *), þá báru Kí- konar efra hlut, og komu Akkeum á flótta. Þar féllu af mér 6 menn af hvørju skipi, en vér adrir kom- umst med fjøri undan. Vér héldum nú þadan áleidis, hryggvir í huga af missir félaga vorra, og þó fjøri fegn- ir; en ekki lét eg fyrr leggjá þeim bordrónu skip- um frá landi, en vér høfdum kallad þrisvar á **) sér-

---

*) Þ. e. þá komid var í þann tíma dags, ad akneytunum var beitt frá plógnum; þad var um middegi, eda litlu sídar. **) Þad var vandi, ad kvedja þann dauda, og kalla þrisvar: fardu vel.

hvørn hinna vesælu félaga vorra, er fallið høfðu fyrir Kíkonum á vígvellinum. Skýsafnarinn Seifur sendi nú norðanvind á eptir skipunum með geysimiklu hreggi, og huldi skýum jafnt jørð og haf; gerði þá náttmyrkur í lopti. Varð nú svo mikill skriður á skipunum, að þau stúngust á stafna, en ofviðrið svipti sundur seglunum í þrennt og fernt; bjuggumst vér þá ei við øðru en bana vorum, og hleyptum því seglunum niður í skipin, og rérum ákaflega til lands. Þar lágum vér tvær nætur og tvo daga samfleytt, dasaðir af erfiði og hugsjúkir af raunum vorum. En er sú hárfagra Morgungyðja hafði látið þriðja daginn upp renna, reistum vér siglutréu, og drógum upp þau hvítu segl, sátum svo kyrrir, og létum vindinn og skipstjórnarmennina ráða stefnunni. Og nú mundi eg hafa heilu og høldnu heim komizt til míns føðurlands, ef aldan og fallið og norðanvindurinn hefði ei hrundið mér frá landi, þá eg var að beita fyrir Malíu-høfða, og hrakið mig afleiðis frá Kýteru.

Þaðan hraktist eg í fárviðri níu daga yfir það fiskisæla haf, en á tíunda degi stigum vér á land Lótofaga, er lifa á blómfagri fæðu. Þar gengum vér á land upp, og tókum vatn; tóku þá skipverjar snæðíng hjá þeim ørskreiðu skipum. En er vér høfðum neytt matar og drykkjar, þá valdi eg tvo menn af førunautum mínum, og lét þeim fylgja kallara hinn þriðja mann, og sendi þá á land upp að njósna, hvað þar byggi mennskra manna. Þeir fóru þegar, og komu á fund Lótofaga. Ekki bjuggu Lótofagar banaráð mønnum mínum, heldur gáfu þeir þeim að eta af Lótusviðar ávexti. En hvørr þeirra sem át Lótusviðarins húnángssæta ávøxt, vildi ekki aptur snúa til að segja frá tíð-

indum, og ekki heim fara; heldur vildu þeir eptir verða hjá Lótofögum og eta þar Lótusvidar ávöxt, en hugsa ekki til heimfarar. Hafdi eg þá med mér til skipa, var þeim þad naudugt, og grétu þeir; sídan dró eg þá upp í þau rúmgódu skip, og batt þá undir þópturnar. En ødrum mínum tryggu førunautum baud eg ad stíga í skyndi á þau ørskreidu skip, svo einginn þeirra skyldi eta af ávexti Lótusvidarins og verda svo afhuga ferdinni. Þeir gengu þegar á skip, og settust á þópturnar, og þegar hvørr var kominn í sitt rúm, lustu þeir árum hinn gráa sæ.

Sídan héldum vér áfram ferdinni, hryggvir í huga, og komum ad landi hinna yfirgángssømu og lagalausu Kyklópa, sem í trausti til hinna ódaudlegu guda hvørki gródursetja nokkura plantan med høndum sínum, né heldur plægja jørdina; því hjá þeim vaxa allskonar gródurtegundir án sáníngar og plægíngar, hveiti og bygg og vínvidur, sem ber stórar vínþrúgur, en regnskúrir Seifs veita þeim vøxt og vidgáng. Aungvar hafa þeir rádssamkomur eda løg, heldur búa þeir í vídum hellrum á tindum hárra fjalla, og rædur hvørr þeirra yfir børnum sínum og konum, en skipta sér ei mjøg hvørjir um adra. Þar fyrir framan høfnina í Kyklópalandi liggur lítil ey, ekki allnærri, og ekki heldur mjøg lángt undan landi, hún er skógi vaxin; þar er mikill fjøldi af villigeitum, sem ekki styggjast þar af mannaferdum; ekki er þar heldur umgángur af veidimønnum, þeir ed opt fá hrakníuga í skógunum, þá þeir fara yfir fjallatindana. Ekki hafa hjardmenn þar yfirfør, eda akuryrkjumenn, heldur er eyin ávallt óbygd af mønnum, ósáin og óplægd, og er þar ad eins hagbeit fyrir enar kumrandi geitur. Því Kyklópar hafa eingin hlýrrodin skip, og

aungvir eru þar menn, er kunni ad skipasmídi; því væru þeir þar, mundu þeir smídad geta. þóptusterk skip, er farid gætu til manna bygda, og flutt ad allar slíkar naudsynjar, er menn opt sækja yfir haf á skipum hvorjir til annara; mundu og þeir hinir sömu yrkt geta þessa byggilegu ey; því ekki er eyin kostalaus, og mundi hún geta af sér gésid allskonar ársgróda. Þar liggja eingjar fram med sjóarbökkunum, votlendar og mjúklendar, og mættu þar víntré verda sífrjó; þar mundi og verda audplægt, og mundi æ mega uppskéra mjög hávaxinn akur á hvörju misseri, því jardvegurinn nidri fyrir er næsta feitur. Þar er höfn med gódri lendíngu, og þarf þar ekki skipi ad festa, hvorki stjóra ad kasta, né kutfestar á land bera; þarf þar ekki annad en renna skipum ad, og bída kyrr, þar til er skipverjar vilja á burt halda, og á kemur blásandi byr. En innanverdt í höfninni rennur fram skær vatnslind undan hellir nokkurum, og vaxa þar aspir umhverfis. Hér lögdum vér ad landi, og vísadi einhvörr gudanna oss leid í náttmyrkrinu; því svo var dimmt, ad ekki vard séd frá sér, var nídamyrkur umhverfis skipin, en máni skýum hulinn, og nádi ekki ad lýsa. Sat því einginn eygt eyuna, og ekki sáum vér þær stóru bárur veltast ad ströndinni, fyrr en þau þóptusterku skip runnu ad upp. En er skipin voru lendt, tókum vér nidur öll seglin, og stigum sjálfir á land í fjörunni, og tókum á oss nádir, og bidum svo lýsíngar.

En er sú árborna rósfíngrada Morgungydja kom í ljós, tókum vér ad reika um sjálfa eyuna, og fannst oss mikid um. Skógargydjurnar, dætur Seifs Ægisskjalda, höfdu rekid fjallgeiturnar á fætur, til þess skipverjar gæti fengid sér dagverd; tókum vér þá boga

og lángskept spjót, sem á skipunum voru, skiptum lidi voru í þrjá flokka, og skutum dýrin, og gaf guð, að oss varð vel til veiða. Tólf skip voru í fær minni, og hlotnaðist hværju þeirra níu geitur, en tíu vøldu þeir úr af óskiptu handa mér einsømlum. Þannig sátum vér þá allan daginn til sólseturs að veizlu, og høfðum nóg kjøt og ljúffengt vín; var enn ekki uppgengið það hið rauðleita vín, er var á skipunum: því þá vér tókum þá helgu borg Kíkona, hafði hværr vor ausið gnótt víns á berla. Vér litum land Kýklópa, er þar var í grend, sáum reykinn, og heyrðum mál-róm þeirra og jarmínn í sauðunum og geitunum. Þá er sól var runnin, og myrkur komið, løgðum vér oss til svefns á sjáfarstrøndinni. En er sú árborna rósfíngraða Morgungyðja kom í ljós, setta eg þíng, og tók til orða í viðurvist allra: mínir kæru félagar, þér skuluð vera hér eptir, en eg ætla að fara með mitt skip og lagsmenn mína, og vita, hværir menn þetta eru, hvørt þeir eru ofstopamenn, villumenn og ójafnaðarmenn, eða gestrisnir menn og guðhræddir. Að því mæltu sté eg á skip, og bað førunauta mína fara uppí og slá skutfestum. Þeir gengu þegar á skip, og settust á þópturnar; og þegar hværr var kominn í sitt rúm, lustu þeir árum hinn gráa sæ. En er vér vorum komnir í þenna stað, er skamt var í burtu, sáum vér þar á útskaga nokkrum, fram við sjóinn, háfan hellir, þakinn lárviði; þar lá margt fé, bæði sauðfé og geitfé; þar var umhverfis hár garður af jarðføstum klettum, stórum grenitrjám og hálaufguðum eikum. Sá var heldur stórvaxinn, er þenna skála átti; var hann einsamall úti í haga með fé sitt lángan veg þar frá, því þessi ódáðaseggur var einn sér, og hafði ekki samblendi við aðra; hann var hið

mesta troll, og ekki mennskum manni líkur, heldur skógþøktum tindi hárra fjalla, sem mænir einstakur upp yfir aðra hnúka. Nú bað eg mína dyggu förunauta að vera þar eptir og gæta skipsins, en valdi tólf þá hraustustu af þeim, og gekk af stað. Eg hafði með mér geitbelg með døkkleitu ljúffengu víni. Maron Evantesson, hofgoði Appollons, verndargoðs Ismarusborgar, hafði gefið mér þetta vín, fyrir það að vér høfðum gefið honum grið og syni hans og konu, og látið hann njóta þess að hann bjó í skógarlundi Febuss Appollons. Hann gaf mér fagrar gjafir: hann gaf mér sjø vættir af smíðuðu gulli, hann gaf mér skaptker úr alsilfri, og þar á ofan gaf hann mér sætt vín, er hann hafði látið á ekki færri en tólf berla; það var áfengt vín og hinn ágætasti drykkur. Einginn á heimili hans, hvørki þrælar né ambáttir, vissu af þessu víni, utan hann sjálfur og kona hans og ráðskonan. Væri svo vld, að þau drykki þetta hunángsæta rauðleita vín, þá var hann vanur að koma tuttugu mælirum vatns í einn fullan bikar víns, og lagði þó sætan og ununarfullan ilminn upp af skaptkerinu, og mundi þá ekki auðgert að halda sér frá að bergja á því. Eg hafði með mér stóran belg, fullan af þessu víni; líka hafði eg með mér nesti í leðurmal, því mig grunaði strax, að þángað mundi að bera rammefldan mann og tryltan, er hvørki mundi fara að sannsýni né løgum.

Vér gengum í skyndi til hellirsins, og hittum ekki hellirsbúann heima, var hann út í haga með sitt feita fé, að halda því á beit. Þá vér komum í hellirinn, sáum vér margt nýstárlegt: ostgrindurnar svignuðu af ostunum; krærnar voru troðfullar af lømbum og kiðum: því hvað var byrgt út af fyrir sig, það fullorðna sér,

midaldra féd sér, og enn nýbæríngarnir í ødru lagi; allar kirnur, sem hann mjólkadi í, flutu í mysu, bædi byttur og dallar, var þad allt haglega tilbúid. Nú bádu førunautar mínir mig fyrst, ad vér skyldum taka nokkura osta, og fara þadan; þarnæst, ad vér skyldum reka kidin og lømbin í skyndi ofan til hins orskreida skips, og sigla yfir þad salta vatn. En því var nú verr, ad eg fór ekki ad rádum þeirra; mig lángadi til ad sjá hellisbúann, og vita, hvørt hann vildi veita mér nokkurar gestgjafir; og átti þó svo ad fara, ad fé- løgum mínum yrdi eingin tilhlökkun ad sjá hann. Vér kveyktum nú upp eld, og færdum godunum fórnir, tók- um og sjálfir nokkura osta, og átum; sátum vér nú þar inni, og bidum uns hann kom med féd úr hagan- um. Hann hélt á stórum trédrumb af þurrum vidi, til ad kynda undir kvøldverdi sínum. Hann kastadi drumbinum fyrir utan hellirinn, og vard af dýnkur mik- ill; vard oss þá felmt vid, og hrukkum undan inn í hellirinn. Hann rak allt mylka féd inn í þann vída hellir, en skildi eptir geldféd úti, hrútana og hafrana, fyrir utan þann háfa hellisgard. Sídan hóf hann upp mikinn og þúngan hellustein, og lagdi fyrir dyrnar; hann var svo stór, ad tveir og tuttugu sterkir vagnar med fjórum hjólum mundi ei hafa fært hann úr stad. Slíkt feiknabjarg lagdi hann fyrir dyrnar. Sídan sett- ist hann, og mjólkadi ærnar og þær kumrandi geitur, fór hann rétt ad øllu, og kom hvørju lambi á spen- ann. Hann hleypti helmíng hinnar hvítu mjólkur, lét ólekjuna í ridna vandlaupa, og geymdi handa sér; en helmínginn setti hann upp í kirnur, til þess ad hafa vid þorsta, og til kvøldverdar sér. En er hann hafdi aflokid búverkum sínum, þá kveykti hann upp eld, kom

hann þá auga á oss, og spurdi: þér adkomumenn, hvørjir erud þér, og hvadan siglid þér vota vegu? farid þér ad erindum nokkurum, eda hvarslid þér rád; lauslega um hafid, sem víkingar, þeir ed flakka um kríng, hætta lífi sínu, og gera íllt útlendum mønnum? Þann; ig mælti hann, en oss vard selmt vid, því oss brá vid ad héyra þessa ógurlegu rødd, og ad sjá slíka ó; freskju. Ei ad sídur svaradi eg honum og sagdi: Vér erum Akkear, sem á heimleid vorri frá Trójuborg høfum hrakizt afleidis fyrir ymsum vedrum yfir þann mikla sjáfargeim, og erum komnir híngad afleidis og um adra farvegu; mun Seifur hafa viljad haga þessu svo. En vér erum menn Agamemnons Atreifssonar, er nú gengur mestur ordrómur af í verøldu, hefir hann lagt í eydi mikla høfudborg, og lagt ad velli margan mann. En nú er svo komid fyrir oss, ad vér erum komnir hér ad knjám þínum, og bidjum, ad þú gefir oss ein; hvørja gestgjøf, eda veitir oss einhvørn greida, eins og gestfélaga er sidur til. Óttastu gudina, gódur madur! því vér erum þínir naudleitamenn; en Seifur, sem verndar gestaréttinn og leidbeinir þeim virduglegu gest; um, hann er hefnigod allra naudleitamanna og gesta. Svo mælti eg, en hann svaradi mér aptur í grimmum hug: heimskur ertu, gestur, eda þú ert lángt adkominn, er þú býdur mér ad hrædast eda fordast gudina. Ky; klópar skeyta ekki um Seif Ægisskjalda eda þá sælu gudi; vér erum meiri fyrir oss, en svo. Ekki mun eg hlífast vid þig né félaga þína, til ad komast undan fjand; skap Seifs, nema mér bjódi svo hugur um. Seg mér nú, hvar þú lendtir þínu velgjørda skipi, þá þú komst híngad, ad eg viti, hvørt þad er einhvørstadar vid útstrandir, eda þá hér í nánd. Þetta sagdi hann

til að freista mín; en hann fékk ei buligt fyrir mér; því eg vissi margt; talàði eg þá til hans aptur vélafullum orðum: Posídon jarðarskelfir rak skip mitt upp að klettum, og braut það fyrir mér, og hrakti það upp að nesi nokkuru við takmörk yðvars lands, hafði veður borið það af hafi útan; en eg komst lífs af með þessum, sem hér eru. Svo mælti eg, en hann var í svo grimmu skapi, að hann svaraði mér aungvu, heldur stökk upp, og lagði hendur á lagsmenn mína, greip tvo af þeim, eins og hvolpa, og sló þeim niður við, svo að heilinn lá úti og hraut á jörðina; síðan limaði hann þá í sundur, bjó þá sér til matar, og át þá, eins og fjallaljón; án þess að leifa innislin, kjötið eða þau merg-jnðu bein. Þá vér litum þessar grimmu aðfarir, hófðum vér engin önnur skepnd ráð; en vér fórnuðum grátandi höndum til Seifs. En er risinn hafði jetið magafylli sína á mannaholdi, og drukkið óblandaða mjólk á eptir, lagðist hann endilángur niður í hellirinn milli kindanna. Þá féll mér það stórræði í hug, að gánga nær honum, þrífa til þess beitta sverðs, sem hékk við síðu mér, draga það úr slíðrum, og leggja því fyrir brjóst honum, þar gegnt sem þyndin liggur að lifrinni. En mér datt annað í hug, sem aptraði mér: það var það, að vér hefðum þá sjálfir haft vísan bana, þar vér ekki hefðum orkað að færa burt með handafli þann þúngá stein, er hann hafði lagt fyrir hellismunnann. Biðum vér því svo búnir til þess er lýsa tók, og undum illa hag vorum.

En er sú árborna rósfíngraða Morgungyðja kom í ljós, þá kveykti hann upp eld, og mjólkaði það fríða fé, allt eptir réttri reglu, og kom hverju lambi á spena. En er hann hafði lokið búverkum sínum, þá þreif hann

enn tvo menn, og bjó þá til snædings; og er hann var mettur, stökti hann því feita fé út úr hellirnum, en tók ádur frá þann mikla hellustein; og vard honum ekki mikid fyrir því; lagdi hann sídan fyrir aptur, vidlíka og þá madur rennir loki yfir örvamælir. Tók risinn nú til ad reka hid feita fé til fjalls, og hóadi nú grídarlega. En eg var eptir, og bjó þad í skapi mér ad gera honum eitthvad til meins og leita vid ad hefna mín, ef Atena vildi mér sæmdar unna. Kom mér þá eitt rád til hugar, sem mér þótti vænlegast. Þar hjá einni krómi lá stór kylfa, sem risinn átti, hún var úr vidsinjörsvidi og grasgræn; hafdi hann höggvid hana upp og ætlad ad þurka, til ad hafa í hendi sér. Oss virdtist, þá vér litum á kylfuna, ad hún mundi vera því líkust sem siglutré úr stórum hafskerum byrdingi med 20 árarödum; svo var hún laung og gild, ad því er oss leitst til. Eg fór til og hjó hérumbil fadmslángan bút af kylfunni, fékk hann félögum mínum, og bad þá telgja, og sléttudu þeir hann; en eg fór til og gjördi hann hvassan í annan enda, tók sídan og sveid hann í logandi eldi, fól hann svo í mykjunni, er þar var mikil og þykk um allan hellirinn, og bjó vel um. Sídan bad eg þá ad hlutast um, hvörr til þess vildi verda med mér, ad færa staurinn á lopt, og reka hann í auga hellisbúans, þegar er sætur svefn rynni á hann. Féll nú svo hlutur, ad þeir urdu til fjórir, sem eg sjálfur mundi kosid hafa, og gekk eg í flokk med þeim hinn fimti. Um kvöldid kom hellisbúinn úr haganum med þad lagdfagra fé; hann rak þegar allan þann feita fénad, eins og hann var sig til, inn í þann vída hellir, og skildi nú ekkert eptir fyrir utan þann háfa hellisgard, annadhvört af því ad hann hefir grunad eitthvad, eda

guð hefir sagt honum það. Þá hann hafði tekið upp þann mikla hellustein, og lagt hann fyrir dyrnar, settist hann og mjólkaði ærnar og þær kumrandi geitur, hafði hann rétt lag á öllu, og kóm hverju lambi á spena. En er hann var búinn að afljúka húverkum sínum, þreif hann enn tvo menn, og bjó til matar sér. Eg gekk þá til risans með skál í hendi, fulla með dökkleitu víni, og sagði til hans: taktu við, risi, og drekk þetta vín, til að vökva þig eptir mannakjötið! skaltu nú fá að smakka, hvað góður þessi drykkur er, sem skip vort hefir haft að geyma. Annars kom eg með þetta vín til dreypifórnar handa þér, í þeirri von að þú mundir miskuna þig yfir mig, og veita mér fararbeina heim. En þú lætur sem óður maður, svo að ekki er lengur við vært. Hví mundi nokkur maður úr víðri-veröldu vilja hér eptir sækja á þinn fund, þú grimmi seggur, þar sem þú breytir svo ránglega? Svo mæiti eg, en hann tók við skálinni, og rendi af; þótti honum hinn sæti drykkur ákaflega góður, og bað mig um aptur í henni, og sagði: gef mér enn í skálinni, ljúfurinn minn, og seg mér nú, hvað þú heitir, skal eg þá gefa þér þá gestgjöf, sem þér skal þykja vænt um. Sú frjóf-sama jörð ber að vísu Kyklópum stórar vínþrúgur, og regnskúrir Seifs veita þeim vöxt og viðgáng; en þessi drykkur er eins og hann væri afrás ódáins feitar og ódáinsvíns. Svo mælti hann, en eg gaf honum aptur það skæra vín. Þrisvar færði eg honum að drekka, og þrisvar drakk hann í botn af heimsku sinni. En er vínið tók til að svífa á risann, þá talaði eg til hans blíðlega og sagði: spyrðu mig að mínu alkenda heiti? Eg skal segja þér satt frá því, en þú gef mér gestgjöf nokkura, eins og þú hétst mér. Nafn mitt er Utis,

og svo kallar mig móðir mín og faðir minn og allir félagar mínir. Svo mælti eg; en hann svaraði mér aptur af grimmum hug: eg skal eta hann Utis síðastan, þegar eg er áður búinn með alla förunauta hans; þetta skal vera gestgjöfin þín. Að því mæltu hallaðist hann aptur á bak, og datt upp í lopt; lá svo og beygði út á hlið sinn digra svíra; féll þá á hann svefninn, sem alla sigrar, en vínið vall fram úr honum, og mannakjötsbitarnir, sem hann ældi upp í rotinn. Eg tók þá staurinn í glóðahrúgu, til þess hann skyldi hitna, og hughreysti alla félaga mína; svo enginn skyldi verða ragur og renna. En er viðsmjörsviðar staurinn, enn þótt hann væri glænýr, var orðinn næsta hvítglóandi, og við sjálft lá, að í honum mundi kvikna, þó tók eg hann úr glóðunum, og bar hann þar að sem risinn lá; en lagsmenn mínir stóðu þar umhverfis, og blés guð nú miklu áræði í brjóst oss: þeir tóku viðsmjörsviðar staurinn, og hleyptu oddmjóa endanum inn í augað; en eg seildist upp á efra endann, og hríngsneri staurnum. Eins og þegar einhvörr smiður borar skipatimbur með stórviðarbor, en svelnar hans, sem standa undir niðri, halda í beggja vegna, og koma rennibornum á stað með strengnum, svo hann hleypur viðstöðulaust: eins tókum vér þann oddbrenda staur, og hríngsnérum honum í auga risans, var staurinn heitur, og flaut blóðið upp með honum öllumegin. Allar brýrnar og brárnar sviðnuðu af brunanum, meðan augasteinninn brann; sauð þá í augnatóptinni af eldinum. Það var vidlíka og þegar járnsmiður herðir stóra böløxi eða handøxi, og bregður henni í kaldt vatn, svo hún sudar hátt við; því það er það, sem gerir járnið stadgott; eins sauð í auganu, þegar viðsmjörsviðar staurinn stóð í gegnum það. Risinn öskraði þá

ógurlega, svo ad glumdi í øllum hellirnum; en vér urdum hræddir og þutum undan. Sídan kipti hann staurnum alblódugum út úr auganu, og þeytti honum frá sér af hendi, því hann þoldi ekki vid. Hann kalladi nú hástøfum á þá Kyklópa, sem bjuggu í grend vid hann í hellrum á þeim vindleiknu annesjum. En er þeir heyrdu ópid, komu þeir úr øllum áttum, numu stadar hjá hellirnum og spurdu hvad ad honum gengi: hvad er þér ad ángri, Polyfemus! er þú æpir svo hátt á náttarþeli, og heldur vøku fyrir oss? Er nokkur ad ræna fé þínu ad óvilja þínum? eda er nokkur ad drepa þig med svikum eda ofbeldi? Sá sterki Polyfemus svaradi þeim inni í hellirnum: Utis *) drepur mig med svikum, gódir vinir, og ekki med ofríki. Þeir svørudu honum med skjótum ordum, og søgdu: þad er vel, ad einginn veitir þér ofríki, þar sem þú ert einn þér; en ekki er ad hugsa, ad komast hjá sjúkdómi hins mikla Seifs. Er þér því best, ad heita á hinn voldugа Posídon, født þinn, þér til hjálpar. Þannig mæltu þeir, og gengu burt med sama; en mér hló hugur vid, ad nafn mitt og rádkænska mín skyldi hafa gabbad hann. Risinn stundi nú af sárum kvølum, þreifadi fyrir sér med høndunum, og tók steininn frá dyrunum, og settist svo sjálfur í dyrnar, breiddi út fadminn, og ætladi ad handsama hvørn sem út gengi med fénu; hann hefir líklega hugsad, ad eg mundi vera þad barn, ad gánga svo í greipar hans. En eg hugsadi mig um, hvad tiltækilegast mundi, ef eg mætti eitthvørt rád upp

*) Utis þýdir einginn; en þessi grein verdur ekki útløgd svo tvírædt á íslenzku, ad hún bædi svari meiníngu rísans og skilníngi Kyklópanna.

finna til ad frelsa félaga mína frá dauda og sjálfan mig; beitta eg þá öllum vélum og allri minni ráðkænsku, med því um lífid var ad tefla, því nú var oss mikill háski búinn. Pad rád, sem eg hugsadi ad best mundi duga, var þetta. Par voru þriflegir saudir, ullarmiklir, stórir og fallegir, þeir voru móraudir; eg tók þrjá og þrjá af þeim, og batt þá saman í kyrrþey med hardsnúnum víðirtágum, sem risinn lá á, trollid það, sem eingri sanngirni sinti. Saudurinn, sem í midid var, bar einn mann, en hinir tveir gengu sínumegin hvørr, og geymdu félaga minna; báru svo þrír saudir hvørn mann. Nú var þar einn hrútur sem var lángfélegastur í øllu fénu; eg greip ofan í bakid á þessum hrút, og vatt mér undir kvid hans, og hékk þar, en héldt mér fast med bádum høndum í ullarreifid, og lá svo þolgódur. Svona bidum vér, þó oss væri óhægt, þar til er lýsa tók.

En er sú árborna rósfingrada Morgungydja kom í ljós, þá ruddust saudirnir út í hagann, en ærnar, sem voru ómjólkadar, jørmudu í kvíunum, því stálmi var farinn ad koma í júgrin. Eigandinn, sem var illa haldinn af sárum kvølum, tók á bøkum allra saudanna, og stódu þeir keikir; en á því varadi hann sig ekki, ad mennirnir voru bundnir undir kvidi hinna lodnu sauda. Sídastur saudanna gekk hrúturinn út, hann var þúngur af reifinu, þá var honum og nokkur byrdarauki ad mér; voru þá í mér mikil heilabrot. Sá sterki Polyfemus tók á honum, og mælti til hans: Hvad kemur til, hrússi minn, ad þú fer sídastur af fénu út úr hellirnum? Pú ert ekki vanur því endrarnær ad gánga aptastur af saudunum; fyrstur ertu vanur ad fara út í hagann til ad bíta það blómfagra gras, og skálmar þá stórum; fyrst-

ur ertu vanur að koma til þeirra rennandi vatnsfalla; og fyrstur viltu koma aptur heim á kvíabólið á kvöldin. Nú þar á móti ertu síðastur allra. Er svo, að þú saknir auga húsbónda þíns? þess er sá vondi maður Utis blindaði með aðstoð sinna örmu félaga, eptir það hann hafði gjört mig ölvaðan; grunar mig þó, að hann muni enn ei undan bananum sloppinn. Ef þú hugsaðir það sama sem eg, og hefðir málið, svo þú gætir sagt til, hvört hann hefir hlaupið í felur fyrir mér, þá skyldi eg slá honum svo niður við, að heilinn úr honum hryti víðs vegar um hellirinn; og þá mundi létta á hjarta mínu þeim kvölum, sem hann Utis, vesalmennið það, hefir bakað mér. Að því mæltu slepti hann hrútnum út. En þegar við vorum komnir skammt frá hellirnum og garðinum, leysti eg mig fyrst undan hrútnum, og síðan losaði eg fylgjara mína. Síðan rákum vér þá hábeinóttu mörvuðu sauði af stað, og urðum vér opt að snúast í kríngum þá, áður vér komumst til skipsins. Urðu félagar vorir fegnir að sjá oss, er undan höfðum sloppið bananum, en hörmuðu hina með kveinstöfum. En eg leið þeim ekki að hljóða upp yfir sig, heldur setti eg á mig svip, og bannaði þeim það; bað eg þá varpa þeim lagðfögru sauðum skyndilega upp í skipið, og sigla yfir það salta vatn. Geugu þeir þá þegar á skip, og settust á þópturnar, og þegar hvörr var kominn í rúm sitt, lustu þeir árum hinn gráa sæ. En er eg var kominn svo lángt frá, að heyra mátti til lands, ef kallað var, þá talaði eg þessum sáryrðum til risans: þér varð ekki að því, risi minn, að sá maður væri neinn bleyða, sem þú átst mennina fyrir í þeim víða hellir! og heldur en ekki hafa þér í koll komið illverk þin, grimdarseggurinn, er þú sveifst ekki að eta þá menn, sem voru til

gistíngar í híbýlum þínum; og því hefir Seifur og aðrir gudir hefnst á þér. Svo mælti eg, en hann varð við þetta afarreiður; hann reif upp stóran fjallshnúk, og kastaði, og kom fyrir framan það stafnbláa skip, og ylgdist sjórinn, er bjargið kom niður, en apturkastið af straumöldunni utan af hafinu bar skipið skjótt til lands, og rak það upp að fjerunni. Eg greip þá lángan fork, og stjakaði út, en bandaði skipverjum með höfðinu, að þeir tæki til ára og herdti sig, svo vér kæmumst úr þessum háska. Létu þeir nú fallast á fram, og sóttu róðurinn. En er vér vorum komnir tvøfaldt lengra en áður fram á sundið, þá ætlaði eg að tala til risans, en skipverjar løttu mig þess, hvørr úr sínu rúmi, og søgðu við mig með blíðum orðum: Hví viltu, ofurhuginn, egna þenna trylta mann? hann sendi oss nú sendíngu lengst út á sjó, og rak skipið aptur til lands, svo oss þótti um hríð óskýnna líf en hel; og ef hann hefði heyrt einhvørn kalla eða tala, þá hefði hann hausbrotið oss, og mølvað skipið með þeim hrufótta steini; svo lángt kastar hann! Svo mæltu þeir, og gátu þó ei aptrað stórhuga minum. Talaði eg þá aptur til risans í reiðum hug: Ef einhvør dauðlegra manna spyr þig, risi, hví svo hafi illa orðið, að þú hafir mist sjónar á auga þínu, þá skaltu segja, að Odysseifur borgabrjótur Laertesson frá Itøku hafi blindað þig. Svo mælti eg, en hann hljóðaði upp yfir sig, og svaraði: Mikil ósköp! sannarlega koma fram á mér fornar spár. Hér var ágætur og mikill spámaður, að nafni Telemus Evrymusson, hann var allra manna forspáastur, og sagði Kyklópum spár allt fram á ellidaga. Hann kvað allt þetta mundu síðar framkoma, að eg mundi sjónar missa af vøldum Odysseifs; og bjóst eg ætíð við, að híngað mundi

koma einhvørr mikill madur og fríður og vel að þreki búinn, en nú hefir lítilmenni, vesælmenni og þrekleysingur blindað mig, og þó gert mig ølvaðan áður. En kom þú nú híngað til mín, Odysseifur minn, eg skal veita þér gestgjafir, og heita á hinn fræga Landaskelfir, að hann greiði før þína; því eg em hans son, og hann er faðir minn. Hann mun fá læknað mig, ef hann svo vill, eða einginn ella, hvørki hinna sælu guða né dauðlegra manna. Svo mælti hann, en eg svaraði honum og sagði: Eg vildi eg væri eins viss um að geta svipt þig ønd og lífi, og sendt þig til Hadesar heimkynnis, eins og eg er viss um það, að jáfnvel Landaskelfir læknar ekki auga þitt. Svo mælti eg, en hann fórnaði þá høndum til þess stjrnda himins, og hét á hinn voldnga Posídon: heyr, jarðkríngjandi Posídon, bláhærði guð! sé það satt, að eg sé þinn son, og þú faðir minn, þá veit mér það, að Odysseifur borgabrjórur nái ei heim að komast; en ef honum á það auðið að verða, að sjá vini sína og komast til síns velbygða húss og føðurjarðar sinnar, þá gef, að hann missi áður allra førunauta sinna, komist seint heim með illan leik á annara manna fari, og sæki illa að heima. Þannig baðst hann fyrir, og heyrði Bláhærði guð bæn hans. Síðan hóf hann aptur upp miklu stærri stein, sveiflaði honum í kríng, og heiðti, tók hann þá á sínn heljarafli; kom steinninn skammt fyrir aptan það stafnbláa skip, og lá við sjálft, að hann lendti í stýrishælnum; hljóp brim í sjóinn, og rak það upp að landi. En er vér komum til eyarinnar, þar sem hin ønnur þóptusterku skip lágu øll saman, sátu félagar vorir þar grátandi, og þráðu eptir oss. Og er vér komum þar, leiðtum vér skipinu við sandinn, og gengum á land í fjørunni, tókum sauði risans

upp úr því rúmgóða skipi, og lögdum til hlutskiptis, svo allir bæru jafnan hlut frá bordi. En þegar fénu var skipt, gerdu mínir fagurbrynhosudu félagar mér þad virdíngarmark, ad þeir gáfu mér hrútinn einsömlum; fórnfærdi eg hann í fjörunni hinum svartskýada Sejfi Kronússyni, er yfir öllu drottnar, og brendi eg bógana. En Seifur sinti ekki blótinu, heldur lagdi hug á þad, ad öll mín þóptusterku skip og mínir dyggu förunautar skyldu tortýnast. Þannig sátum vér þá allan daginn til sólseturs ad veizlu, og höfdum gnógt kjöt og ljúffengt vín. En er sól var runnin og myrkur komid, þá lögdum vér oss til svefns á sjáfarströndinni. En er sú árborna rósfíngrada Morgungydja kom í ljós, þá eggjadi eg förunauta mína, og bad þá gánga á skip og slá skutfestum. Þeir gengu þegar á skip og settust á þópturnar, og þegar hvörr var kominn í rúm sitt, lustu þeir árum hinn gráa sæ. Héldum vér nú áfram ferdinni, harmþrúngnir af missir félaga vorra, en þó fegnir því, ad vér sluppum úr lífsháskanum.

---

# Odysseifs drápa.

## Tíunda bók.

Inntak: Odysseifur kemur til Eóluseyar, gefur Eólus honum hagstædan vestanvind, en fær honum alla adra vinda, innibyrgda í einum belg; kemst hann svo í landsýn vid Itöku, en þá leysa menn hans frá vindabelgnum, svo hann drífur aptur til Eóluseyar, rekur Eólus hann

þá burt, og hrekst hann til Lestrígóna; þeir brutu 11 skip hans, og drápu hvørt mannsbarn, er á var; kemst hann þaðan einskipa til Eyar. Þar brá Kirka hálfri skipsøgn hans í svínalíki; sjálfur fær hann tøfragras hjá Hermes, yfirstígur fjølkýngi Kirku, nær hylli hennar, og kemur mønnum sínum aptur úr ánauðum. Hann dvelur eitt ár hjá Kirku, og beiðist þá burtfarar, en hún sendir hann til undirheima, að leita fréttar hjá Tíresías. Aður hann fer þángað, missir hann voveiflegá Elpenor, einn af fylgdarmønnum sínum.

Vér komum til Eóluseyar, þar bjó Eólus Hippotesson, ástvinur hinna ódauðlegu guða. Pessi ey var á floti, lá umhverfis hana eirsterkur veggur, óbrjótandi, og gnæfði sléttur hamarinn í lopt upp. Eólus átti tólf børn, þau voru heima hjá honum, sex dætur og sex synir frumvaxta, hafði hann gipt dæturnar sonum sínum, og sitja þeir ávallt að veizlum hjá sínum kæra føður og sinni góðu móður, og er sett fram fyrir þá ótal kræsir, og er á daginn glaumur mikill í forgarði þeirrar ilmandi hallar, en á næturnar hvíla þeir á blæum og á útskornum legubekkjum hjá sínum virðuglegum konum. Vér komum nú til borgar þeirra og hinnar føgru hallar. Eólus tók vel á móti mér, og lofaði mér að vera í heilan mánuð; spurði hann mig um alla skapaða hluti, um Ilusborg, um skip Argía, um heimfør Akkea; og sagði eg honum vandlega frá øllu. En er eg beiddist orlofs og mæltist til farargreiða, þá synjaði hann mér

þess ekki, og greiddi fyr mína. Hann fló belg af níu ára gømlum-ølduñg, og gaf mér, hafdi hann þar í innibyrgt ráfir hinna uppbelgdu vinda: því Kronusson hafdi gert hann ad ráðsmanni yfir vindunum, til ad þagga þá nidur eda æsa þá upp eptir vild sinni. Hann batt belginn á því rúmgóda skipi med ljómandi silfurfesti, og bjó svo um, ad ekki komst út minnsti gustur, en lét blásandi vestanvind anda á eptir mér, til ad fleyta áleidis skipum og mønnum. En þad átti ekki ad lánast, því vort eigid glappædi vard oss ad tjóni. Vér sigldum nú níu daga samfleytt, nótt og nýtan dag, og þegar á tíunda degi skaut upp fødurlandi voru, og nú sáum vér vitavørd þann, er næstur var. Þá seig á mig sætur svefn af þreytu, því eg hafdi allajafna haft vald á klónni, og látid eingan annan géra þad af skipverjum, gerda eg þad til þess ad vér kæmumst því fyrr heim til fødurlandsins. Nú tóku førunautar mínir tal med sér, og kvádu mig hafa gull og silfur medferdis heim, søgdu þad vera gjafir frá enum hugstóra Eólus Hippotessyni. Þeir litu þá hvørr upp á annan og søgdu: undur er þad, í hve miklum kærleikum og metum þessi madur er hjá øllum mønnum, í hvada borg eda land sem hann kemur. Hann hefir med sér margar fagrar gersemar frá Trójuborg, sem hann hefir í hlutskipti; en vér, sem høfum farid jafnlánga leid, førum tómhendtir heim aptur. Og nú hefir Eólus gefid honum þessar vingjafir. Látum oss skoda rétt snøggvast, hvad þetta er, hvad mikid gull og silfur er í belgnum. Svo mæltu þeir, og réd hér meira óráð fylgjara minna. Þeir leystu frá belgnum, og þustu þá út allir vindarnir. Bylurinn hreif þá skipverja strax med sér, og hrakti þá frá fødurlandinu, bárust þeir þá lítt af.

En er eg vaknadi, runnu á mig tvær grímur, hvørt eg skyldi heldur steypa mér fyrir bord, svo eg týndist í hafinú, eda skyldi eg þegja og þreya og hafa enn samneyti vid adra lifandi menn. Eg réd heldur af ad þreya og bída, lagdist nidur í skipid, og breiddi ofan á mig; en skipin drifu í fárvidrinn til Eólusseyar aptur, og bárust førunautar mínir illa af. Vér stigum þar á land, og tókum vatn; og tóku skipverjar brádt snæding hjá þeim ørskreidu skipum. En er vér høfdum neytt matar og drykkjar, þá tók eg med mér kallarann og annan mann til, og gekk til ennar ágætu hallar Eóluss, fann eg hann sitjandi ad veizlu med konu sinni og sonum. Þá vér komum í høllina, settumst vér á þrøskuldinn vid dyrustafina; en þeim hnykti vid, og spurdu: hvørninn stendur á því, ad þú ert kominn, Odysseifur? hvada óhamíngja sækir ad þér? Vér gerdum þig þó frá oss med øllum virdtum, svo þú mættir heim komast til þíns fødurlands og til húss þíns og þess sem þér er kært. Svo mæltu þeir, en eg sagdi til þeirra harmþrúnginn: mínir illu førunautar, og auk þess sá óhamíngjusami svefn, hafa ordid mér ad meini. Gjørid nú svo vel, vinir, og leggi einhvørja líkn, því þér erud þess umkomnir. Þannig mælti eg, og fór eg vel ad þeim; þeir urdu hljódir vid, en fadir þeirra svaradi og sagdi: far þú strax burtu úr eyunni! þú munt vera einhvørr hinn versti madur, og er mér ei hæfilegt, ad hýsa eda beina før þess manns, sem hatadur er af hinum sælu gudum. Far þú burt! því reidi gudanna hefir vísad þér híngad. Þá hann hafdi þetta sagt, vísadi hann mér burt úr høllinni, og féll mér þad ærid þúngt. Héldum vér svo áfram ferd vorri, harmþrúngnir í hjarta; urdu skipverjar ørmæddir af þeim erfida ródri, og hlautst

það af heimsku vorri, og sáust nú eingi líkindi til framar, að heimför vor mundi greiðast.

Vér héldum nú áfram í sex daga samfleytt, nótt og nýtan dag, og komum á sjöunda degi til Lamusar háreistu borgar, Telepylusborgar í landi Lestrígóna. Þar rekur einn hirðir inn hjörð sína, þá annar rekur út, og kallast á, svo hvörr heyrir til annars; þar gæti einhvörr vökuskarfurinn unnið fyrir tvöföldu kaupi, og tekið eitt kaup fyrir nautageymslu, og annað fyrir sauðageymslu: því dagbeitarlöndin og nátthagarnir eru nálægt borginni. Vér lögðum þar til lægis í ágætri höfn, lá einlægur brattur hamar umhverfis höfnina á báðar hendur; en í hafnarmynninu gánga fram tvö annes, hvört gegnt öðru, og er þar mjótt sund inn að fara. Þeir héldu nú allir hinum borðrónu skipum þar inn, og var skipunum fest í innanverðum hafnarpollinum nálægt landi, því þar var hvítalogn, og kom þar aldrei hinn minnsti sjóargángur. Eg einn lagði skipi mínu fyrir utan höfnina, þar við útskagann, og festi landfestarnar við hamarinn. Eg gekk upp á háfan hól, og nam þar staðar, varð þar hvörki vart við plóglendur eður neitt mannaverk, sáum vér ekkert nema reyk, er lagði upp af landinu. Þá senda eg förunauta mína á njósn, að forvitnast um, hvað mennskra manna byggi í landinu; valdi eg til þess tvo menn, og lét þeim fylgja kallara hinn þriðja mann. Fóru þeir á land upp, og gengu sléttan veg, þar sem vagnar voru vanir að flytja timbur til borgarinnar ofan af þeim háfu fjöllum. Fyrir framan borgina mættu þeir stúlku, sem var að sækja vatn, það var hin skörúglega dóttir Antifatess Lestrigona-Köngs, gekk hún til fagurrennandi lindar, er hét Artakía, hvar vant var að sækja vatn úr borginni. Þeir

gengu til heunar, urpu ordum á hana, og spurdu, hvørr kóngur væri í landinu, og hvørjir væru þegnar hans. Hún vísadi þeim þegar á høll fødur síns. En er þeir komu inn í hin ágætu herbergi, hittu þeir húsfreyuna, hún var mikil vexti, sem fjallhnúkur væri, og stód þeim ótti af henni. Gerdi hún þegar bod eptir bónda sínum, hinum fræga Antifates, er þá var á torgi staddur. Hann ætladi þeim dapran dauda, og greip þegar einn af sendimønnum, og bjó hann sér til snædíngs; en hinir tveir ruku burt, og komust á flótta til skipanna. Hann rak þá upp org, svo ad heyrdist um alla borgina; og er þeir sterku Lestrígónar heyrdu til hans, komu þeir hvadanæfa, var þad mikill fægur, og ekki mønnum líkir, heldur Gigøntum. Þeir hendtu svo stórum steinum ofan af bjørgunum, ad hvørr þeirra var manntak; gerdist þá brádt illur gnýr á skipunum, er allt var senn, ad mennirnir drápust og skipin mølvudust; stúngu þeir skipverja í gegn, eins og fiska, og høfdu á burt med sér, var þad ókjørleg vist. Ámedan þeir voru ad drepa þá inni á þeirri djúpu høfn, brá eg hvøssu sverdi, er eg hafdi vid sídu mér, og hjó sundur festar þess stafnbláa skips, eggjadi menn mína, og bad þá fara til ára, svo vér komumst úr háskanum. Réru þeir þá allir drífanda, því þeir óttudust bana sinn. Vard eg þá feginn, er skip mitt skrapp fram undan slugabjørgunum; en hin skipin fórust þar øll saman.

Sídan héldum vér fram ferdinni, hryggvir í huga af missir félaga vorra, og þó fegnir því, ad vér komumst úr þessum lífsháska. Vér komum til Eyar, þar bjó sú hárfagra Kirka, hin tignarlega gydja, er taladi manna máli. Hún var alsystir hins vitra Eetess: var fadir beggja þeirra Helius, er lýsir hinum daudlegu

mønnum, en móðir þeirra var Persa, dóttir Okeans. Vér fórum hljóðlega, og løgðum að landi í einni legu-høfn, og leiðbeindi oss einhvørr guð þángað. Þar stig-um vér af skipsfjøl, og lágum á landi tvo daga og tvær nætur, ørmæddir af erfiði og sorgum. En er hin hár-fagra Morgungyðja lét þriðja daginn upprenna, tók eg spjót mitt og hið bitra sverð, og gekk hvatlega upp frá skipinu á víðsýnan stað, til að vita, hvørt eg sæi nokk-ur mannaverk, eða heyrði mannamál. Eg gekk upp á háfan hól, og nam þar staðar, þóttist eg sjá, ígegnum þá þéttu eikirunna og skóginn, reykinn úr híbýlum Kirku leggja upp af þeirri víðlendu jørð. Réðist eg þá um við sjálfan mig, er eg sá reykjar møkkvann, hvørt eg skyldi gánga á njósn. En þá eg hugsaði um þetta, leitst mér ráðlegra að fara fyrst ofan til strandar til hins fljóta skips, veita førunautum mínum snæðing, og senda þá svo á njósn. En þegar eg var kominn í nánd við það borðróna skip, þá aumkvaðist einhvørr guðanna yf-ir mig, þar sem eg var einmana, og stefndi háhyrndum hirti miklum rétt í veg fyrir mig. Hjørturinn hafði ofð-ið móður af sólarhita, og gekk því ofan úr skóglandinu til fljótsins að drekka. En í því hann gekk ofan, skaut eg til hans, kom skotið ofan í hrygginn á miðju baki, og gekk eirspjótið ígegn hinsvegar; féll hann þá ýlandi til jarðar, og leið øndin upp af honum. Eg drap þá fæti á hann, og kipti eirspjótinu úr undinni, lagði það á jørðina og lét það þar eptir, en fór og sleit upp víð-irtágar, fléttaði mér tvíbrugðna taug, hér um faðms-lánga, og batt um fætur þessarar miklu skepnu, bar hana svo á bakinu ofan til þess svarta skips, og studdist við spjótið, því að ótækt var að halda á svo afarmiklu dýri á øxlinni með annari hendi. Eg varpaði því niður fyr-

ir framan skipið, vakti félaga mína með blíðum orðum, gekk til hvørs manns og sagði: þó vér séum sorgbitnir, kærir vinir, þá munum vér þó ekki fyrr ofan fara til Hadesar heimkynna, en skapadægur vört adkemur. Látum oss því neyta fædslu og ekki vanmegnast af húngri, medan matur og drykkur er til á því fljóta skipi. Svo mælti eg, og gegndu þeir mér skjótt til þessa, vörpudu klædum af sér, og skodudu hjörtinn á sjáfarströndinni, og fannst mikid til koma, því dýrid var afarstórt. En er þeir höfdu horft á þad, sem þá lysti, þógu þeir hendur sínar, og efndu til dýrdlegrar veizlu. Þannig sátum vér þá ad veizlu allan daginn til sólarlags, og höfdum gnógt kjöt og ljúffengt vín. En er sól var runnin og myrkur yfir komid, lögdumst vér til svefns á sjáfarströndinni.

En er sú árborna rósfíngrada Morgungydja kom í ljós, setta eg þíng, og tók til erda í áheyrn allra: heyrid ord mín, gódir félagar, sem ratad hafid í margar raunir! Med því vér, kærir vinir, hvorki vitum, hvar næturheimur eda dagsheimur er, né heldur, hvar sú lýsandi sól gengur undir eda hvar hún rennur upp, þá látum oss skjótt hug um leida, hvört enn sé nokkud til ráda, og hygg eg fátt muni til vera; því þá eg gekk uppá einn háfan hól, sá eg ad ómælilegt haf liggur í hríng umhverfis eyna, og ad hún er sjálf láglend; en í gegnum eikirunnana og skóginn eygdi eg reyk, sem lagdi upp af henni midri. Svo mælti eg, en þeir urdu hnuggnir, því þeir mundu til stórvirkja þeirra, er Antifates hinn lestrigoniski hafdi unnid, og ofurefliS hins hugstóra Kyklóps, mannætunnar. Þeir hljódudu hástöfum, og grétu fögrum tárum, en voru þó aungvu nær ad heldur fyrir kveinstafi sína. Eg skipti

þá øllum mínum fagurbrynhosudu førunautum í tvær sveitir, og lét sinn høfudsmann vera fyrir hvørri, var eg høfdíngi fyrir annari, en fyrir annari hinn godum= líki Evrylokkus. Løgdum vér nú hluti í eirhjálm, og hristum ódt, og kom út hlutur hins hugstóra Evrylokk= us. Fór hann nú af stad, og med honum tveir og tuttugu skipverjar, og þótti oss sárt ad skilja hvorum= tveggjum. Þeir hittu híbýli Kirku í skógardal nokkur= um, þau voru bygd af høggnum steini og lágu á víd= sýnum hól. Hjá húsinu voru fjallvargar og ljón, sem Kirka hafdi tøfrad med lyfum, er hún hafdi gésid þeim. Þessi dýr réduſt ekki á adkomumenn, heldur gengu fladrandi móti þeim og dínglu du þeim laungu rófum, eins og hundar, sem fladra upp á eiganda sinn, þá hann kemur úr veizlu, af því hann er þá alltjend vanur ad færa þeim eitthvørt huossgæti. Eins flodrudu þeir kló= sterku vargar og ljónin uppá þá, en þeir urdu hræddir, er þeir litu þessar óttalegu skepnur. Þeir stadnæmd= ust í fordyri hinnar hárprúdu gydju, og heyrdu til Kirku, hvar hún saung inni med fagri rødd, hafdi hún þá uppi mikinn vef og himneskan; var hann, eins og handbragd gydjanna er vant ad vera, smágjørr, fallegur og glæsi= legur. Þá tók høfdinginn Polites til orda, sem var mér hinn kærasti og trúasti af félogum mínum: kærir vinir! hér er einhvør inni ad vefa mikinn vef, ánnad= hvørt einhvør gydja eda kona, og sýngur hún svo fag= urt, ad undir tekur í øllum grundvellinum. Vér skul= um því þegar gera vart vid oss. Svo mælti hann, en þeir gerdu vart vid sig, og kvøddu dyra. Hún gekk þegar fram, og lauk upp þeim ljómandi hurdum, og baud þeim inn; voru þeir svo óforsjálir, ad þeir fylgdu henni inn allir, nema Evrylokkus var eptir, því hann

grunaði að hér mundu einhvør svik undir búa. Þá hún hafði leidt þá inn, lét hún þá setjast á legubekki og hástóla. Hún hrærði ost og hveiti og bleikt hunáng saman við pramnist vín, og lét í þenna hræríng ólyfjan, að þeir skyldu með öllu gleyma sínu föðurlandi; og þá hún hafði gefið þeim hræríнginn, og þeir höfðu drukkið, þá drap hún á þá sprota sínum, og læsti þá inni í svínastíum; höfðu þeir þá svínshausa, og rittu sem svín; vaxtarlagið og háralagið, var sem á svínum, en þó héldu þeir ásferðu viti sínu, jafnt sem áður hafði verið. Voru þeir nú þannig inni byrgðir, og undu illa hlut sínum, en Kirka kastaði fyrir þá steineikar mýlum, akörnum og hagþorns eitlum, sem er venjuleg svínafæða. Evrylokkus skundaði til hins örskreiða skips; en er hann ætlaði að bera fregn af fylgjurum sínum og ánauðum þeirra, þá fékk hann aungvu orði upp komið, þó hann leitaði við: svo mjög var hjarta hans harmþrúngið; augu hans fyltust tára, og grátstafur bjó í huga hans. En þegar vér gengum allir á hann, þá sagði hann oss um síðir frá óförum fylgjara sinna: frægi Odysseifur, vér gengum gegnum eikirunnana, eins og þú baudst, og hittum hin fögru, vönduðu húsakynni í skógdal nokkurum; þar saung inni einhvör gyðja eða kona snjallri röddu, og hafði uppi vef mikinn. Þá gerðu þeir vart við sig, og kvöddu dyra, en hún gekk fram, og laук upp þeim ljómandi hurðum, og bauð þeim inn, og voru þeir svo óforsjálir, að þeir gengu inn allir á eptir henni; nema eg var eptir, því mig grunaði, að hér mundi einhvörr prettur í vera. Síðan hurfu þeir allir saman, og sást einginn þeirra framar, sat eg þó lengi og skygndist eptir þeim. Svo mælti hann, en eg varpaði mínu stóra silfurneglda eirsverði og

boga mínum um øxl mér, og bad hann þegar í stad fylgja mér sømu leid; en hann tók bádum høndum um kné mér, og bád: lát mig, hér eptir verda, seifborni konúngur, og far ei med mig þángad; em eg ófús ad fara, því eg veit, ad þú munt hvørki fá sjálfur aptur komist, né nokkurn aptur heimtan af félagum þínum. Flýum heldur sem skjótast med þá sem nú eru hér; má vera, ad vér enn fáum undan stýrt ógæfunni. Svo mælti hann, en eg svaradi honum og sagdi: Evrylokkus, þad er og vel, ad þú hýrist hér eptir, þar sem þú ert nú kominn, hjá því svarta rúmgóda skipi, og etir þar og drekkir. Eg skal fara sjálfur, því nú ber brýn naudsyn til.

Ad því mæltu gekk eg upp frá skipinu, og frá sjó á land upp, og fór upp eptir hinum helgu skógdølum. En er eg átti skammt til hallar Kirku, hinnar fjølkunnugu, þá mætti Hermes gullinsproti mér, í því eg var ad gánga ad høllinni. Hann var líkur úngum manni, sem nýsprottin er grøn og er á sínu fegursta æskuskeidi; hann tók í hønd mér, tók til orda og mælti: hvørt ætlar þú, vesæll madur, þar sem þú gengur einmana yfir hálsana og ratar ekki? Førunautar þínir eru hér innibyrgdir í híbýlum Kirku, og gista í rammbygdum fylsknum í svínalíkjum. Eda ætlardu híngad til ad leysa þá úr ánaudum? Eg spái því, ad þú komist ei aptur sjálfur, og megir gista í sama stad og þeir. Heyr nú, eg skal leysa þig af þessu vandrædi, og frelsa þig. Tak vid þessu góda náttúrugrasi, og haf þad med þér til híbýla Kirku, og mun þad fá varid þig fyrir allri ógæfu. Eg skal segja þér allar meinvélar Kirku: hún mun búa til hræríng handa þér, og koma tøfrum þar í, og mun hún þó ekki áløgum á þig koma, og veldur

því grafid hid góda, er eg mun gefa þér. Nú skal eg segja þér enn meir. Þegar Kirka lýstur þig med þeim lánga sprota, þá skaltu bregda því bitra sverdi, er þú hefir vid sídu þér, og vada ad Kirku, og lát sem þú munir vega ad henni. Hún mun þá verda skelkud, og bjóda þér á bed sinn; en þegar svo er komid, þá skaltu ekki undan skorast samlagi vid gydjuna, ef svo mætti verda, ad hún tæki félaga þína úr álögum, og veitti þér vidtöku. En láta skaltu hana sverja þér styrkan eid vid þá sælu gudi, ad hún vilji þér ekkert mein gera framar; hætt er vid ella, ad hún geri þig duglausan og þreklausan, þá þú hefir lagt af þér klædi þín. Ad því mæltu dró Argusbani kraptagrasid upp úr jördunni, og fékk mér, og sagdi mér frá náttúru þess. Rót þess var svört, en blómid hvítt sem mjólk, kalla gudirnir þad Mólý; daudlegum mönnum veitir erfidt ad grafa þad upp, en gudunum er allt máttugt. Nú fór Hermes burt til þess háfa Olympus yfir þá skógóttu ey, en eg gekk til híbýla Kirku, og var hjarta mitt mjög órótt í mér á leidinni. Eg nam stadar vid dyr hinnar hárprúdu gydju, stód þar og kalladi, en gydjan heyrdi til mín, gekk þegar fram, og lauk upp þeim ljómandi hurdum, og baud mér inn; gekk eg inn eptir henni, og lá þá illa á mér. Hún leiddi mig innar, og lét mig setjast í silfurneglt hásæti, þad var fagurt og haglega tilbúid, og var fótaskör undir til ad standa á. Hún bjó til hræring handa mér í gullskál til ad drekka, og lét þar í töfra, hafdi hún illt í hyggju. En er hún hafdi fært mér þetta, og eg hafdi drukkid, og töfrarnir bitu ekki á mig, þá drap hún á mig sprota sínum, tók til orda og mælti: fardu nú til svínastíunnar, og legstu þar hjá sveitúngum þínum! Svo mælti hún,

en eg brá mínu bitra sverdi, er eg hafdi vid sídu mér, ód ad Kirku, og lét sem eg mundi vega ad henni. Hún hljódadi hástøfum, hljóp undan hegginu, tók um hné mér, og taladi grátandi til mín skjótum ordum: hvørr ertu, og frá hvada landi? hvar áttu heima og foreldrar þínir? mig furdar, ad þú skyldir ei skipta líkjum, þá þú drakkst tøfradrykkinn, því einginn madur hefir fyrr þolad þessa ólyfjan, sá er hana hefir drukkid og eittsinn látid hana koma inn fyrir varir sér. Ertu ekki Odysseifur hinn vídførli, sem Argusbani gullinsproti einatt hefir sagt ad koma mundi til mín á heimleid sinni frá Trójuborg? Nú vil eg bidja þig ad þú slídrir sverd þitt, og stígum svo bædi á bed-minn, ad vid njótum þar samlags og yndis, og bindum trúnad hvørt vid annad. Svo mælti hún, en eg svaradi henni og sagdi: hví skaltu, Kirka, bidja mig ad ega vingott vid þig? þar sem þú hefir brugdid førunautum mínum í svínalíki í híbýlum þínum, en vilt halda mér hér sjálfum, og bidur mig slæglega ad gánga inn í svefnstofu þína og stíga á bed þinn, til þess ad gera mig duglausan og þreklausan, þá eg hefi lagt af mér klædi mín. Ekki mun eg stíga á bed þinn, nema þú treystir þér til, gydja, ad sverja mér þess dýran eid, ad þú viljir mér ekkert mein framar gera. Svo mælti eg, en hún sór þegar, eins og eg mæltist til. En er hún hafdi svarid eidstafinn og unnid eidinn, þá steig eg á hinn fagra bed Kirku.

Fjórar þjónustumeyar, sem þjónudu henni á heimilinu, høfdu á medan fyrirgáng í høllinni; þær eru fæddar af vatnslindum, skógarlundum og helgum fljótum, þeim er fram renna til sjóar. Ein þeirra lagdi fallegar, purpurraudar glitábreidur ofan á hásætin, en

einlita búka undir. Þunnr setti borð af silfri fyrir framan hástólana, og lét þar á gullkarfir. Hin þriðja blandaði sætt ljúffengt vín í silfurskaptkeri, og skenkti á hinar gullnu skálir. Hin fjórða kom með vatn, og kveykti glæðilegan eld undir stórum katli, og hitnaði brádt vatnið. En er vatnið sauð í þeim fagra eirkatli, blandaði hún það mátulega, lét mig svo setjast í laugarker, og þvoði höfuð mitt og herðar upp úr þeim stóra katli, þar til er hún hafði komið þeim sára lúa úr limum mínum. En er hún hafði laugað mig og smurt með olíuviðarfeiti, lét hún yfir mig fallega yfirhöfn og kyrtil, leiddi mig inn, og lét mig setjast á silfurneglðan hástól, fallegan og haglega tilbúinn, og var skör niðri fyrir til að standa á. Hún bað mig taka til matar, en eg hafði ekki lyst á því, heldur sat eg annars hugar, og var sem eitthvað biti á mig. En er Kirka sann, að eg sat og tók ekki til matarins, og að megn harmur bjó mér í skapi, þá gekk hún til mín, og talaði til mín skjótum orðum: hví situr þú svona, Odysseifur, eins og mállaus maður, gremur geð þitt, og neytir hvörki matar né drykkjar. Þú munt enn vera hræddur um einhvør svik, og þarftu þó ekkert að óttast, er eg hefi dýrt svarið, að gera þér ekkert. Svo mælti hún, en eg svaraði henni og sagði: Kirka, hvørr maður, sem nokkura nærgætni hefir í sér, getur fengið af sér að neyta matar eða drykkjar, fyrr en hann hefir lausa fengið félaga sína, og séð þá með eigin augum? Þessvegna, ef þér er alvara að mælast til þess, að eg eti og drekki, þá taktu mína kæru félaga úr álögunum, svo eg fái að sjá þá. Svo mælti eg, en Kirka gekk út úr höllinni, og héldt á sprotanum í hendi sér. Hún lauk upp dyrum svínastíunnar, og rak

þá út, voru þeir þá líkir níu ára gömlum alisvínum. Síðan stóðu þeir frammi fyrir henni, gekk hún þá í hópinn, og reið á hvørn þeirra einhvørjum øðrum tøf- rasmyrslum; féllu þá utan af þeim svínshárin, er vax- ið höfðu við hina fyrri ólyfjan, er sú máttuga Kirka hafði gefið þeim. Urðu þeir nú brátt að mønnum apt- ur, og únglegri en áður, og miklu fríðari og stærri á velli. Þeir kønnuðust við mig, og tóku í hønd mér hvørr um sig, kom þá upp hjá þeim øllum saknaðar- treginn, svo hátt tók undir í allri høllinni, og jafnvel sjálf gyðjan kendi í brjósti um þá. Sú ágæta gyðja gékk þá til mín og sagði: seifborni Laertesson, ráða- góði Odysseifur! far nú ofan til strandar til þíns fljóta skips; skulið þér fyrst setja skipið upp, og bera fé yðvart og allan skipreiða í hellrana, síðan skaltu sjálfur fara híngað og hafa með þér þína kæru félaga. Svo mælti hún, og gerði eg sem hún bauð, gekk ofan til strandar til þess fljóta skips, og fann þar mína kæru førunauta, báru þeir sig hørmulega, og grétu søgrum tárum. Þeim fór nú líkt og kvígunum í sveitinni, þegar kýrnar koma úr haganum heim að fjósinu, þá fá básarnir ekki lengur haldið kvígunum, bregða þær sér allar í einn á leik fram- an í kúnum, og støkkva síbaulandi kríngum mæður sín- ar. Eins þyrptust þeir grátandi kríngum mig, undir eins og þeir litu mig augum; sýndust þeir vera eins í skapi, eins og væru þeir heimkomnir í føðurland sitt og í átt- haga sína á hinni grýttu Iþøku, hvar þeir voru fædd- ir og uppaldir. Þeir tøluðu grátandi til mín hrað- fleygum orðum: seifborni konúngur, vér erum svo fegnir orðnir komu þinni, sem værum vér heim komnir til Iþøku, fósturjarðar vorrar; en þú gjør nú svo vel, og seg oss frá øførum lagsmanna vorra. Svo mæltu þeir,

en eg sagdi til þeirra blídlega: vér skulum nú fyrst setja upp skipid, og koma fé voru og øllum farvid í hellrana; fylgid mér svo allir saman hvatlega, ad þér sjáid lagsmenn ydra í enum helgu húsum Kirku, hvar þeir eta og drekka, og hafa alls nægtir. Svo mælti eg, en þeir hlýddu þegar ordum mínum allir, nema Evrylokkus, hann var sá eini, sem vildi aptra før þeirra: hvört førum vér, vesælir menn? hví fýsir ydur til þess ófagnadar, ad gánga til hallar Kirku? Hún mun gera oss alla ad svínum, úlfum eda ljónum, munum vér þá naudugir viljugir verda ad gista í gardi hennar. Mun hér af ekki hljótast minna tjón, en þad sem risinn gerdi, þá lagsmenn vorir komu í hellir hans, og þessi ofdyrfkufulli Odysseifur í før med þeim; olli því óframsýni hans, ad þeir høfdu þar bana. Svo mælti hann; flaug þá í huga mér ad bregda því lángeggjada sverdi, er eg hafdi vid sídu mér, høggva høfud af honum, og láta þad fjúka til jardar, enn þótt hann væri mér mjøg námtengdur; en førunautar mínir øptrudu mér med blídum ordum, og lagdi sitt til hvørr; seifborni konúngur, vér munum láta mann þenna vera hér eptir vid skipid, ef þad er þinn vilji, og gæti hann skips; en þú leidbein oss til enna heiløgu híbýla Kirku. Svo mæltu þeir, og gengu upp frá skipinu og sjónum; Evrylokkus fylgdist og med, og vildi ei eptir verda nidri vid þad rúmgóda skip, því hann óttadist ógnarord mín. Á medan hafdi Kirka med miklum virktum laugad hina adra førunauta mína í høllinni, smurt þá med olíuvidar feiti, og lagt yfir þá þykkvar yfirhafnir og kyrtla; hittum vér þá alla sitjandi ad dýrri veizlu í høllinni. En er þeir fundust, søgdu þeir hvørjir ødrum frá raunum sínum, og grétu med svo miklum kveinstøfum, ad undir tók í allri

höllinni. Hin ágæta gyðja gekk þá til mín og sagði: hefjið nú ei framar grátlegar harmatölur! Eg veit sjálf, bæði hve margar raunir þér hafið í ratað á því fiskisæla hafi, og líka hve mikið tjón þér hafið beðið á landi af óvinum ydar. Nú skulud þér neyta matarins og drekka vínið, þar til þér hafið aptur fengið slíkan hug í brjóst, sem þér höfðuð, þá er þér fórud fyrst frá hinni grýttu Itöku, ættjörðu ydvarri. Nú þar á móti erud þér örmæddir og hugdaprir, og minnist ei á annað en hrakníng ydarn, og aldrei er ydur gladt í huga, af því þér hafið ordið svo margt að þola. Svo mælti hún, en vér létum oss þetta að góðri kenníngu verða, og sátum þar alla daga að veizlum upp í heilt ár, og höfðum til borðs gnógt kjöt og ljúffengt vín.

En er árið var liðið, og missérum skipti, kölludu mínir kæru förunautar mig á tal, og sögdu: minnst þó loksins, mikli raunamadur, á föðurland þitt, ef það á fyrir þér að liggja, að komast lífs af til þíns hárræfraða húss og til ættjarðar þinnar. En er eg var stíginn á hinn fagra beð Kirku, fór eg að henni með auðmjúkum bænarorðum, og veitti gyðjan áheyrn tali mínu. Hét eg þá á hana, og taladi til hennar skjótum orðum: efn við mig, Kirka, loford þitt, er þú hétst mér að greiða heimför mína. Er mér nú þar á hugleikið, og svo förunautum mínum; gengur mér það nær hjarta, að sjá þá harmandi í kríng um mig, í hvört sinn sem þú ert ekki við stödd. Svo mælti eg, en sú ágæta gyðja svaraði þegar: seifborni Laertesson, rádagódi Odysseifur! ekki skulud þér nú lengur vera í húsi mínu, fyrst ydur er annað ljúfara. En þó verðið þér fyrst að halda aðra leið, og fara til heimkynna Hadesar og ennar ógurlegu Persefónu, til að leita fréttar hjá vofu hins blinda spá-

manns, Tíresíasar hins tebiska, sem heldur ófferdtu lífskjöri sínu, og þó hann sé daudur, hefir Persefóna veitt honum vitsmuni, svo ad hann er sá eini spekíngur þar, en allir adrir rása sem skuggar. Svo mælti hún, en eg vard ótta skelfdur, settist á rúmid og tók til ad gráta, lángadi mig þá ekki lengur til ad lifa og sjá ljós sólarinnar. En er eg hafdi grátid og veltst nægju mína, þá ravadi eg til hennar og sagdi: hvørr mun, Kirka, vísa mér þenna veg? því enn hefir einginn sjóleidis farid í Undirheima. Svo mælti eg, en hin ágæta gydja svaradi mér þegar: seifborni Laertesson, rádagódi Odysseifur! ekki skaltu vera hugsjúkur um leidsøgumann, þá þú ert til skips kominn; þú skalt reisa siglutréd, slá út þeim hvítu seglum, og setjast svo nidur; mun þá nordanblásinn fleyta skipi þínu áleidis. En er þú ert kominn med skipid yfir Jardarstrauminn, og þángad sem er lág strønd og lundar Persefónu, háfar aspir og ávaxtarlausir pílar, þá skaltu lenda þar skipinu hjá þeim hyljótta Jardarstraumi, og fara sjálfur til Hadesar dimmu stødva. Þú skalt fara þángad sem Pyriflegeton og Kókytus, sem er kvísl af Styxvatni, renna í Akkeron, og á hamarinn, þar sem þau tvø nidmiklu fljót falla saman. Þegar þú ert nú kominn, ødlíngur, þángad sem eg nú gat um, þá skaltu grafa grøf, álnarlánga á alla vega; hjá grøfinni skaltu dreypa dreypifórn øllum draugunum, fyrst húnángsbløndu, þar næst sætu víni, og í þridja sinn vatni, og kasta þar út á hvítum bygggrjónum. Sídan skaltu bidjast fyrir rækilega og heita á þá máttlausu drauga, ad þú skulir blóta í høll þinni, þá þú kemur heim til Iþøku, geldri kvígu gallalausri, og bera á bálid marga góda gripi; þú skalt og heita, ad fórnfæra Tíresíasi sér í lagi, al-

svartan sauð, sem bestur er í fé þínu. En er þú hef-ir beðist fyrir og heitið á hinn mikla draugasæg, þá skaltu slátra hrút og svartri á, og snúa þeim mót myrkheimi, en sjálfur skaltu horfa undan andspænis móti fljótstraumnum. Þá munu þar að koma margar vofur dauðra drauga; en er það verður, þá skaltu bjóða förunautum þínum, og segja þeim að flá kindurn-ar, er liggja þar skornar hörðu járni, brenna þær til fórnar og heita á guðina, hann sterka Hades og hina ógurlegu Persefónu; en sjálfur skaltu bregða því bitra sverði, er þú hefir á hlið þér, og setjast niður, og varna þeim máttlausu draugum að komast að blóðinu, fyrr en þú hefir leitað frèttar hjá Tíresías. Þá mun ei á laungu líða, áður spámaðurinn kemur til þín, þjóð-höfðíngi; sá mun geta sagt þér frá ferðalagi þínu og leiðarlengð og heimför þinni, hvörsu þú munt aptur komast yfir það fiskisæla haf. Svo mælti hún, og leið ekki á laungu, áður Morgungyðjan kom, gullinstóla; færði Kirka mig þá í klæði, yfirhöfn og kyrtil, en sjálf fór gyðjan í mikla silfurbjarta skikkju, smágjörva og fallega, og lagði um sig fagurt gullbelti, og setti fald á höfuð sèr. Eg gekk þá gegnum herbergin, vakti förunauta mína með hógværum orðum, gekk til hvörs manns og sagði: nú megið þèr ekki lengur sofa og dorma; vèr skulum halda á stað, því sú tignarlega Kirka hefir nú sagt mèr að fara. Svo mælti eg, og skipuðust þeir vel við orð mín. En ekki komst eg held-ur hèðan með förunauta mína grandalaust. Elpenor hèt maður, hann var í yngsta lagi af fylgjurum mín-um; ekki var hann neinn hetja til orustu, og einginn stillíngarmaður. Hann hafði lagzt niður drukkinn á þak-um stað í þeim helgu herbergjum Kirku, en hinir fè-

lagar mínir, af því hann vildi verá þar sem svalt var. En er hann heyrdi þysinn og harkid af skipverjum, þá þeir bjugguſt til ferdar, spratt hann á fætur vofeiflega, en gleymdi ad gánga ofan aptur þann háfa stiga, og féll því beint út af þekjunni, og snaradiſt úr hálslidunum, en önd hans leid nidur til Hadesar heimkynna. Á leidinni til skipsins tók eg til orda og sagdi vid förunauta mína: þér hugsid máske, ad þér eigid nú ad fara heim til ydar kæra födurlands; nei, Kirka hefir rádid oss til annarar ferdar, ad fara til stödva Hadesar og hinnar ógurlegu Persefónu, til ad leita fréttar hjá vofu Tíresíasar hins tebiska. Svo mælti eg, en hjarta þeirra vard sundurknosad af harmi, þeir settust þar nidur og reittu hár sitt, og voru þó aungvu nær ad heldur fyrir kveinstafi sína. En medan vér gengum harmandi ofan ad sjónum til þess örskreida skips, og grétum fögrum tárum, þá hafdi Kirka gengid til þess svarta skips, og bundid þar hrút og svarta á; hafdi henni ekki ordid mikid fyrir ad fara svo á svig vid oss, ad vér urdum ei varir vid. Vilji gud ekki gera vart vid sig, hvörr mun þá geta séd hann med augunum, hvört sem hann fer heldur til eda frá?

---

# Odysseifs drápa.

## Ellefta bók.

Inntak: Odysseifur kemur til Undirheima, hittir þar Elpenor, og lofar ad láta jarda hann; talar vid Tíresías og fær ad vita hjá

honum forløg sín. Antiklea móðir hans segir honum, hvørnig ástadt sé heima. Síðan sér hann margar fornmanna-konur; þá talar hann við nokkura gríska kappa: Agamemnon, Akkilles, Ajant eldra; þaraðauki sér hann dómarann Mínos og veiðimannin Oríon; þá Tityus, Tantalus og Sisyfus í kvølum; og að síðustu sér hann svip Herakless, og þá fer hann aptur frá Undirheimum.

---

En er vér vorum komnir ofan til skipsins og sjáfarins, þá settum vér fyrst skipið á flot, síðan løgðum vér siglutréð og seglin upp í það svarta skip, tókum svo kindurnar, og létum upp í, stigum því næst sjálfir á skip, vorum vér þá harmsfullir og grétum føgrum tárum. Sú fagurlokkaða Kirka, hin tignarlega gyðja, er talaði manna máli, sendi á eptir voru stafnbláa skipi góðan førunaut, það var mjúkur byr, seglfyllíngur. En er vér høfðum hagrædt øllum áhøldum innanborðs, settumst vér fyrir, létum þá vindinn og skipstjórnarmanninn ráða ferðinni; þrammaði skipið á haf út, og stóðu seglin full allan liðilángan daginn. Nú rann sólin, og skugga brá yfir alla vegu, kom skipið þá að enda þess djúpa Jarðarstraums; þar er þjóð og bygð Kimmería, þeir eru huldir dimmu og þoku, og aldrei lítur sá lýsandi Helíus á þá geislum sínum, hvørki þá hann stígur upp á þann styrnda himin, né þá hann hverfir sér af himni aptur ofan til jarðar, heldur breiðist døpur nótt yfir þessa vesælu menn. Þá vér komum híngað, lendtum vér skipinu, tókum út kindurnar, og gengum svo með þeim rennanda Jarðarstraumi, þar til vér komum í

þann stad, er Kirka hafdi vísad oss á. Perímedes og Evrylokkus heldu nú blótfénu, en eg brá beittu sverdi, er eg var gyrdtur med, og gróf grof, álnarlánga á hvørn veg. Vid grofina dreypti eg dreypifórn ollum draugunum, fyrst hunángsblandi, þar næst sætu víni, og í þridja sinn vatni; kastadi eg þar út á hvítum byggarjónum. Sídan badst eg rækilega fyrir, og hét á þá máttlausu drauga, ad þá eg kæmi til Itøku, skyldi eg blóta heima í høll minni geldri kvígu, þeirri er eg ætti besta til, og leggja á bálid marga góda gripi; og Tíresíasi hét eg ad blóta sér í lagi alsvørtum saud, er bestur væri í fé varu. En er eg hafdi bedizt fyrir og heitid á draugasæginn, tók eg kindurnar og skar þær ofan í grøfina, svo raudur dreyrinn blæddi úr strjúpunum; flyktust þá ad vofur hinna daudu drauga nedan úr myrkheimi. Þá kvaddi eg til førunauta mína, og bad þá flá kindurnar, sem láu þar skornar hørdu járni, brenna þær sídan til fórnar, og heita á gudina, hinn sterka Hades og þá ógurlegu Persefónu; en sjálfur brá eg bitru sverdi, er eg hafdi vid sídu mér, og varnadi þeim máttlausu draugum ad komast ad blódinu, fyrr en eg hefdi leitad frétta hjá Tíresíasi.

Fyrst kom vofa Elpenors, førunauts míns, því hann hafdi enn ekki grafinn verid í vídri grundu; skildum vér lík hans eptir í húsi Kirku, ógrátid og ójardad, því vér áttum þá annad ad starfa. Þegar eg leit hann, grét eg og viknadi, og mælti eg til hans skjótum ordum: Elpenor! hvørninn komstu nidur í þann dimma myrkheim? ertu kominn á undan mér, þú sem varst fótgángandi, en eg sigldi? Svo mælti eg, en hann svaradi mér grátandi: óhamíngja og afskapleg víndrykkja vard mér ad meini. Þegar eg var lagztur fyr-

ir í húsi Kirku, gádi eg ekki ad fara aptur ofan þann lánga stiga; datt eg því beint út af þekjunni, og snarádist úr hálslidunum, en ødnin leid nidur í Hadesar heim. Nú bid eg þig fyrir sakir þeirra, sem þú átt nú á bak ad sjá, og hér eru ei staddir, fyrir sakir konu þinnar og fødur þíns, er ól þig upp á barnsaldri, og fyrir sakir Telemakkusar, er þú eptirskildir einan barna í húsi þínu. Eg veit, ad þá þú fer hédan frá undirheimum, þá muntu halda þínu ramgjørva skipi til Eyar. Nú bid eg þig, herra, ad þú minnist mín, er þú kemur þar; lát mig ei eptir ógrátinn og ójardadan, þá þú fer þadan, ad eg ekki verdi þér ad godagremi; heldur brenn mig med vopnum mínum, og verp haug eptir mig, vesælan mann, á sjáfarstrøndinni, svo verda megi einnig eptirkomandi mønnum til afspurnar. Veit mér þetta, og reis upp á hangi minnin ár þá, er eg réra med í lifanda lífi, þá eg var med sveitúngum mínum. Svo kvad hann, en eg svaradi honum og sagdi: þetta skal eg veita þér, vesæll madur, og þad skal eg enda. Medan vid ræddumst þannig vid med harmatølum, sátum vid bádir, eg mínmegin med sverdid á lopti uppi yfir blódinu, en vofa førunauts míns hinumegin, og vard henni hjaldrjúgt.

Þá kom ad vofa minnar dánu módur, Antiklea, dóttir hins hugstóra Avtolykus; hún var þá á lífi, er eg skildi vid hana, ádur eg fór til þeirrar helgu Ilusborgar. Þegar eg leit hana, táradist eg, og vard kløkkur í huga. En allt fyrir þad, þó mér bjyggi sár tregi innanbrjósts, leyfdi eg henni ekki ad komast ad blódinu, fyrr en eg hafdi leitad frétta hjá Tíresías.

Þá kom ad vofa Tíresíasar hins tebiska, hann héldt á gullnum sprota; hann þekti mig, og sagdi til mín: hví ertú, vesæll madur, kominn híngad frá sólar-

ljóśsheimi til ad sjá draugana og þessar daufłegu stødvar. Vik frá grøfinni, og far frá med þad bitra svedð, ad eg megi bergja á blódinu og segja þér sannar spár. Svo kvad hann, en eg hørfadi frá, og stakk því silfurneglda sverdi í slídrir. En er sá ágæti spámadur hafdi bergt á þeim døkkrauda dreyra, þá taladi hann til mín þessum ordum: frægi Odysseifur, þú leitar hægrar heimfarar, en gud mun gera þér hana erfida, því gáta mín er, ad Jardarskelfir muni verda var vid þig, hefir hann þúngan hug til þín, og er þér reidur, af því ad þú blindadir hans kæra son. En ei ad sídur munud þér enn fá heim komizt, enn þótt þér megid nokkutar raunir þola, ef þú kappkostar ad hepta ged þitt og førunauta þinna; reynir þá fyrst á þad, þegar þig hefir borid úr því dimma hafi, og þú hefir lagt þínu ramgjørva skipi vid eyna Trínakíu, hvar þér munud finna á beit naut og saudahjardir Helíusar, þess er allt sér og allt heyrir. Ef þú lætur þetta fé í fridi, og hyggur á heimfør þína, þá munud þér enn fá heim komizt til Iþøku, þó þér megid nokkurum raunum sæta. En ef þú lætur þad ekki í fridi, þá spái eg tjóni skipi þínu og svo førunautum; og þó þú sjálfur kunnir af ad komast, þá muntu þó komast seint heim med illan leik, og á annara manna fari, og missa ádur af þér alla førunauta þína. Þú munt fyrir hitta vogesti heima, ofrikisfulla menn, þá er eyda búi þínu, bidla til þinnar godumlíku konu, og færa henni brúdgjafir, og muntu þó hefna yfirgángs þeirra, þá þú kemur. En er þú hefir banad bidlunum í húsi þínu, annadhvørt med vél, eda med oddi og egg opinberlega, þá skaltu taka þér telgda ár í hønd, og gera ferd þína heiman, og fara þar til er þú kemur til þeirra manna, er ekki þekkja sjó og ekki eta mat saltí

blandinn, kenna hvørki hlýrrodin skip, né telgdar árar, sem eru vængir skipanna. Eg skal segja þér eitt augljóst merki, og skal þér þad ekki bregdast. Þegar annar ferdamadur mætir þér, og segir, ad þú reidir axaspilli (kornskóflu) um øxl þér, þá skaltu stínga þeirri telgdu ár í jørd nidur, færa fridar fórnir þeim volduga Posídon, hrút, tarf og gradsvín, og halda heim á leid aptur, og efna heiløg stórblót øllum hinum ódaudlegu godum, er byggja vídan himin, hvørjum eptir tign sinni. En þér mun ad hendi koma einhvør hinn hægasti daudi utan af hafi, og mun hann vinna á þér í gódri elli og ellimódum, en landsfólkid kríngum þig mun lifa gódu lífi. Mun eg verda þér sannspár ad þessu. Svo mælti hann, en eg svaradi honum og sagdi: Tíresías! þetta munu ad vísu gudirnir sjálfir hafa ákvedid. En seg mér hitt, og inn med sanníndum: eg sé þarna vofu minnar dánu módur, og situr hún þegjandi hjá blódinu, og fær ekki af sér ad líta upp á son sinn, eda varpa ordi á hann; seg mér, ødlíngur, hvørsu þad megi verda, ad hún kannist vid, ad eg em son hennar. Svo mælti eg, en hann svaradi mér þegar, og sagdi: audveldt mun mér ad segja þér þad, og skal eg gera þar grein á. Hvørjum hinna daudu drauga sem þú leyfir ad komast ad blódinu, þá mun sá segja þér satt; en sá, er þú annt þess ekki, mun hørfa til baka fyrir þér.

Þá vofa ødlíngsins Tíresíass hafdi þetta mælt, og sagt þessa spá, gekk hún inn í Hadesar híbýli. En eg beid kyrr, þar sem eg var, þar til módir mín kom ad, og bergdi á þeim døkkrauda dreyra. Þekti hún mig þá strax, og taladi grátandi til mín skjótum ordum: hvørninn komstu, sonur, nidur í þann dimma myrkheim, þar sem þú ert madur lifandi? því torveldt

er fyrir lifandi menn að komast á þessar stöðvar. Kemurðu nú híngað beint frá Trójuborg með skip og menn, eptir lángan hrakníng? hefirðu enn ekki komið til Iþöku? og hefirðu enn ekki verið heima hjá konu þinni? Svo mælti hún, en eg svaraði henni og sagði: móðir mín, mig rak nauður til að fara til Undirheima, til að leita frétta hjá vofu Tíresíass hins tebiska; því eg hef enn ekki komið við Akkealand, og enn ekki sæti stigið á ættjörð vora, heldur hefi eg verið á hrakníngi og alltaf átt bágt, frá því eg fyrst fylgdist með hinum ágæta Agamemnoni til þeirrar hestauðgu Ilusborgar, til að berjast við Trójumenn. En seg mér nú, og inn með sannindum: hvað dró þig til dauða? varð þér lángur kvilli að meini? eða banaði þér hin örvumglaða Artemis voseiflega með sínum þýðu skeytum? Seg mér og frá föður mínum og syni mínum, sem eg lét vera eptir heima, hvört þeir halda enn heiðursgjöfum mínum, eða hafa aðrir tekið þær, og ætli menn mín ekki framar heimvon. Seg mér frá eiginkonu minni, hvað hún ætlast fyrir og hvað henni býr í skapi, hvört hún er kyr hjá sveininum, og gætir búsins, svo ekkert fer forgörðum, eða hvört nokkur af höfðíngjum Akkea hefir nú þegar fengið hennar. Svo mælti eg, en mín heiðvirða móðir svaraði þegar: kona þín er kyrr á heimili þínu með næsta staklegu þolgæði; mörg raunaleg nótt og márgur rauna-dagur líður svo fyrir henni, að hún lætur ekki af gráti. Einginn hefir enn tekið þínar fögru heiðursgjafir, heldur Telemakkus eiginteignm þínum í næði, og situr að skammveizlum, þeim er höfðíngjum ber að sækja; því allir bjóða honum heim. Faðir þinn hefst við þar úti á landsbygðinni, og kemur ekki til borgarinnar. Ekki hvílir hann í herbergisrúmi með hvílu-

skikkjum og glæsilegum glitábreiðum, heldur sefur hann á veturna í húsi hjá þrælunum á gólfinu við eldinn, og er í vondum fötum. En er sumarið kemur og sá blómlegi frjótími, þá er föllnum laufum allstaðar safnað á þeim frjóssama vínakri, og búin upp handa honum flatsæng; þar liggur hann harmandi, og bætir það störum á sorg hans, að hann grætur þig dauðan, verður og aldurinn, sem yfir hann færist, honum heldur þúngbær. Sama varð mér og að fjörlesti; en hvörki banaði mér hin hæfna Örvumglöð vofeiflega í höllinni með sínum þýðu skeytum, né heldur tók mig neinn kvilli, sem helst firrir mann fjöri með leiðri kröm: heldur hefir söknuðurinn eptir þig, frægi Odysseifur, áhyggjan þín vegna, og þín ástúð mér til handa svipt mig því ljúfa lífi. Svo mælti hún, en þá datt mér í hug, að bera mig að ná vofu minnar dánu móður. Þrísvar réðst eg til, og ætlaði að handsama hana, en þrísvar leið hún úr greipum mér, lík skugga eða draumi, og rann upp við það enn sárari harmur í hjarta mínu; talaði eg þá til hennar skjótum orðum, og sagði: hvað kemur til, móðir mín, að þú bíður mín ekki, þegar eg vil ná þér, svo við einnig í Undirheimum getum umfaðmazt kærlega, og svalað okkur báðum á þeim kalda harmi? Hvört mun hin göfuga Persefóna hafa sendt mér þenna svip, til þess eg skuli gráta og andvarpa enn sárara? Svo mælti eg, en mín heiðvirða móðir svaraði mér þegar: æ, sonur minn, þú vesælasti allra manna! ekki gabbar Persefóna þig, dóttir Seifs, heldur er þetta hlutfall dauðlegra manna, þegar þeir eittsinn eru dánir; því þá halda sinarnar ekki lengur saman holdi og beinum; sá máttugi eldsbruni eyðir því öllu, jafnskjótt og lífið er horfið úr þeim hvítu beinum, en öndin líður burt, eins

og draumur, og fløgrar um kring. Keppstu nú sem skjótast aptur til ljóssins; og settu allt þetta á þig, svo þú getir sagt konu þinni frá því seinna meir.

Þegar við höfdum þannig rædst við, komu konur og dætur hinna ágætustu merkismanna, voru þær sendar af hinni göfugu Persefónu; þær flyktust í einum hnapp í kring um þann døkkrauda dreyra. Hugsadi eg mig þá um, hvørninn eg gæti adspurt hvørja þeirra sér í lagi; en það sem mér þótti rádlegast, var þetta: eg brá því lángeggjada sverdi, er eg var gyrdur med, og lofadi þeim ei ad bergja øllum í einu á þeim døkkrauda dreyra; gengu þær þá hvør á eptir annari, og sagdi hvør til ættar sinnar, en eg adspurdi þær allar. Þar sá eg fyrst Tyró, hún var af gøfugu faderni, kvadst vera dóttir þess gøfuga Salmoneifs, og kona Kreteifs Eólussonar. Hún fékk ást á því gudkynjada fljóti Enipeif, sem er það frídasta vatnsfall, er um foldu rennur; vard henni opt gengid med þeim føgru straumum Enipeifs. En sá jardkríngjandi Landaskelfir brá sér í líki fljótsgudsins, og lagdist hjá henni í ósum þess sveipótta fljóts, og stód mórauð holgeyfla umhverfis þann, eins og hamrabelti, og byrgdi gudinn og þá daudlegu konu. En er gudinn hafdi lokid sínum ástar atlotum, tók hann í hønd henni, tók til orda og sagdi: gled þig, kona, af samvistum okkar! ad ári lidnu muntu fæda frída sonu, því samfarir vid ódaudlega gudi verda ei árángurslausar; þú skalt annast þá og uppfæda. Far nú heim, og lát ei á neinu bera; en þér ad segja, þá er eg Posídon Landaskelfir. Þá hann hafdi þetta mælt, stakk hann sér nidur í þann bylgjótta sjó. En hún, sem var ordin barnshafandi, ól þá Pelías og Neleif; urdu þeir bádir øflugir hermenn, bjó Pelías í þeirri

vídlendu Jolkusborg, og var audugur ad saudfé, en Neleifur í hinni sendnu Pýlusborg. Vid Kreteifi átti drottníngin adra sonu, Eson, Feres og riddarann Amytaon. Þarnæst sá eg Antiópu Asópsdóttur, hún kvadst og hvílt hafa í fadmløgum Seifs, og ól hún tvo sonu, Amfíon og Setus; þeir reistu fyrstir bygd í þeirri sjøhlidudu Teбeborg, og bygdu þar vígturna; því þó þeir væru kraptamenn, þá gátu þeir þó ekki búid í þeirri vídlendu Tebeborg turnalausri. Þarnæst sá eg Alkmenu, konu Amfítrýons, hún hvíldi og í fadmi ens mikla Seifs, og átti vid honum þann hugdjarfa og ljónhugada Herakles; þá Megøru, dóttur hins ofurhugada Kreons, hana átti sá afarsterki sonur Amfitrýons. Eg sá og módur Edipusar, þá frídu Epíkøstu, sem í fásinnu hafdi framid þann stórglæp, ad hún giptist syni sínum; en hann vó fødur sinn, og átti módur sína, og létu gudirnir þad brátt verda heyrum kunnugt. Hann var kóngur í Tebeborg og rédi yfir Kadmeum, vard hann margar raunir ad þola af þúngum áløgum gudanna; en hún vard hremd af hugarstridi, festi lánga snøru nidur frá því háfa þvertré, og fór svo til þeirra hardlæstu híbýla hins sterka Hadesar; eptir skildi hún honum allar þær margføldu raunir, er módurlegar hefndarnornir eru vanar ad baka manni. Eg sá og þá afbragdsfrídu Klóris, hennar fékk Neleifur fyrr meir, gekkst hann fyrir frídleik hennar, og gaf henni ótal brúdgjafa; hún var ýngsta dóttir Amfíons Jasussonar, er fyrrum var ríkur konúngur í Orkómenus, Minýa borg. Hún hafdi ríki í Pýlus, og átti vid Neleifi fagra sonu, Nestor, Kromíus og Periklýmenus hinn prúda. Þar á eptir ól hún kvennskørúnginn Perý, er allir menn dáduft ad.

Urdu menn úr öllum nálægum ríkjum til ad bidja hennar, en Neleifur vildi aungvum gefa hana, nema þeim er færdi sér þau bjúghyrndu krúnubreidu naut, er átti Ifikles hinn sterki í Fýlöku; var þetta þraut mikil, og vard einginn til undir ad gángast, nema hinn ágæti spámadur*), og hömludu honum þó guds grimmu álög, hardir fjötrar og nautgeymslumennirnir á landsbygdinni. En er mánudir og dagar voru á enda, árid umlidid, og ný misseri komu ad hendi, þá lét hinn sterki Ifikles hann lausan, af því hann hafdi sagt honum margskyns spádóma; og vard svo fyrirætlun Seifs framgeng. Eg sá og Ledu, konu Tyndareifs; hún átti vid Tyndareifi tvo hugdjarfa sonu, riddarann Kastor og hnefleikarann Polydevkes. Sú lífgandi jörd geymir þá lifandi hvoratveggju, og nedan jardar hafa þeir þá virdíng af Seifi, ad þeir eru lifandi sinn daginn hvörr, en annan daginn daudir; og eru þeir í jöfnum metum vid adra gudi. Þar næst sá eg Ifímedíu, konu Alóeifs; hún kvadst átt hafa samlag vid Posídon. Hún átti tvo sonu, og urdu bádir skammlífir, hinn godumlíka Otus og hinn vídfræga Efíaltes. Þeir voru manna hædstir, þeirra er sú kornfrjófa jörd hafi alid, og allra manna frídastir, næst þeim fræga Orioni; því þá þeir voru níu vetra, voru þeir níu álna breidir, en á hæd níu fadmar. Þeir hótudu þeim ódaudlegu gudum ad hefja róstusaman ófrid á Olympus; ætludu þeir ad leggja Ossafjall upp á Olympus, en þad laufkvika Pelíonsfjall upp á Ossafjall, svo stíga mætti þadan upp á himininn. Mundu þeir hafa komid þessu til leidar, ef þeir hefdu nád þroska aldri;

*) Melampus (Amýtaonsson), sjá 15. bókar 225—240.

en sonur Seifs, er Letó fæddi, drap þá báda ádur en þeim spratt skegg á vánga og hýúngur á höku. Eg sá Fedru og Prókris, og þá frídu Ariödnu, dóttur ens vitra Mínós, er Teseifur flutti fordum frá Krítarey til frjólendis hinnar helgu Atennuborgar, en vard henn: ar þó ekki njótandi, því Artemis banadi henni ádur í þeirri umflotnu Díu, sökum vitnisburdar Díonýsufs. Eg sá Mæru og Klýmenu, og þá andstyggilegu Erífýlu, er sveik mann sinn fyrir þad dýrmæta gull. En ekki fæ eg tilgreint eda nefnt allar þær konur eda dætur kappanna, sem eg sá þar, því til þess mundi ekki veita af allri nóttinni; enda er nú mál komid fyrir mig ad sofa, og annadhvört gánga ofan til þess fljóta skips til förunauta minna, eda vera hér; en gudirnir og þér munud annast flutnínginn.

Svo mælti hann, en allir þögdu, vard hljódt í þeim skuggalegu sölum, og voru menn sem agndofa. Sú hvítarmada Areta tók þá svo til máls: Feakar, hvörsu lítst ydur á þenna mann, bædi vöxt hans, og frídleik og vitsmuni? þad er gestfélagi minn. Nú med því sérhvörr ydar á hér hlut í rádum, þá látid hann ekki fara burtu hédan svo brádlega, og minkid ekki þar med gjafir vid hann, er hann er þurfandi; því svo er gudunum fyrir þakkandi, ad þér eigid fyrirliggjandi marga gripi í herbergjum ydar. Þá tók til orda hinn aldr: adi ödlíngur Ekeneus: kærir vinir, sannarlega talar hin vitra drottníng til vor med nærgætni, og var þess von af henni, og er ydur best ad fara ad rádum hennar; en þó er allt undir Alkínóus þarna komid, hvad gjört og rædt er. Alkínóus svaradi honum og sagdi: þetta sem nú er talad, skal framgáng hafa, svo framarlega sem mér verdur aldurs audid ad ráda yfir þeim ródrar:

gjörnu Feokum. Hvad heimfús sem gesturinn er, þá skal hann þó láta sér lynda ad bída hér til morguns, þar til eg hefi komid saman öllum gjöfunum. En allir skulu sameginlega annast slutnínginn, og einkanlega eg, því eg hefi ædstu rád hér í landi. Sá rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: voldugi Alkínóus, frægastur allra manna! þó þér segdud mér ad dvelja hér jafnvel árlángt, skyldi eg fús taka þann kost, ef þér ad eins legdud stund á ad búa ferd mína, og gæfud mér fagrar gjafir, því bædi yrdi þad miklum mun févænlegra, ad koma til födurlandsins med fullar hendur fjár, og líka mundu þá allir menn, er sæu mig heim kominn til Itöku, hafa mig í meiri virdíngum og kærleikum eptir en ádur. Alkínóus svaradi honum og sagdi: ekki lítst oss svo á þig, Odysseifur, ad þú munir vera gabbari og lygari, eins og margir menn eru, sem vída finnast dæmi til í heimi, ad menn setja saman ósannindi um þad sem menn sízt skyldu ætla. Nei, þú ert vel máli farinn og drenglundadur. Söguslega hefir þér, eins og sáungmanninum, farizt ad segja frá öllum Argíum yfir höfud, og svo sjálfum þér; hefir þad verid raunasaga mikil. En seg mér hitt, og inn med sannindum: sástu nokkura af þínum godumlíku sveitúngum, er fylgdust ásamt med þér til Ilusborgar, og hreptu þar bana. Nú er lángnætti mikid, og enn ei kominn háttatími í höllinni. Seg mér því frá æfintírum þínum. Eg skyldi halda vöku fyrir mér til morguns, ef þú hefdir þreyu hér í höllinni, medan þú segir frá raunum þínum. Sá rádagódi Odysseifur svaradi honum og sagdi: voldugi Alkínóus, frægastur allra manna! satt er þad, ad enn er tími til ad segja frá mörgu, en þó er nú mál ad sofa. En lángi þig enn

til að hlýða sögu minni, þá mun eg ei undanskorast að segja þér aðrar sögur, enn raunalegri en þessar, um mannraunir förunauta minna, þeirra er síðar létust; þeir komust að sönnu klakklaust úr þeirri hryggilegu styrjöld Trójumanna, en fórust á heimleiðinni, og hlautst það af hinni illu konu.

En er sú hreinlífa Persefóna hafði tvístrað kvenn-vofunum víðs vegar, þá kom að-vofa Agamemnons Atreifssonar, hún var dapurleg, og voru í kríngum hana allar vofur þeirra manna, sem höfðu dáið og bana beðið ásamt með honum í húsi Egistufs. Þegar hann hafði bergt af þeim dökkrauða dreyra, þekti hann mig strax; hann æpti þá hástöfum, og grét fögrum tárum, fórnaði að mér höndunum, og vildi seilast til mín, en það kom fyrir ekki, því nú var ekki lengur það sama óbilugа afl og fjör í armleggjum hans, sem áður. Þegar eg leit hann, táraðist eg, og kendi í brjósti um hann, og talaði til hans skjótum orðum: frægasti Atreifsson Agamemnon þjóðhöfðíngi! hvað var það, sem dró þig til dauða? hleypti Posídon að þér skaðvænum stormveðrum, og yfirþyrmdi þig á skipunum? eða drápu óvinir þig á landi, þegar þú varst að ræna nautum og fríðum sauðahjörðum, eða berjast til borgar og kvenna. Svo mælti eg, en hann svaraði mér þegar og sagði: seifborni Laertesson, ráðagóði Odysseifur! ekki vann Posídon á mér, með því að hleypa skaðvænum stormvindum á skip mín, ekki drápu mig heldur óvinir á landi; heldur bjó Egistus og mín illráða kona mér bana eg feigð, gerðu mér heimboð og héldu mér veizlu, og drápu mig þar, eins og þá maður drepur nauk á stalli. Þannig dó eg hinum aumlegasta dauðdaga, en aðrir förunautar mínir voru höggnir í

kríngum mig, hvørr á fætur ødrum, líkt og hvíttentum svínum er slátrad í brúdkaupsveizlu, vinagildi eda ríkmannlegu mannbodi einhvørs audugs høfdíngja. Stadid hefir þú ad margs manns vígi, bædi þeirra er drepnir hafa verid í einvígi, og í snarpri fólkorustu, og mundi þér þó einna mest bløskrad hafa, ef þú hefdir séd oss, þar sem vér lágum í høllinni kríngum skaptkerid og alsett bordin, en allt golfid flaut í blódi. En þad óp hefi eg heyrt aumkvunarlegast, er Kassandra Príamusdóttir hljódadi, þegar sú vélráda Klýtemnestra vó hana vid hlidina á mér; hóf eg þá upp hendur mínar, þar sem eg lá á gólfinu dauđvona, og ætladi ad grípa utan um svedjuna. En konuskømmin gekk í burt, og fekk sér ekki einusinni ged til ad veita mér nábjargir, og var eg þó ad bana kominn; og er einginn skapadur hlutur grimmari og ósvífnari til, en sú kona, er fær af sér ad vinna slíkar ódádir, sem hún vann, þarsem hún réd bana bónda sínum; hafdi eg ætlad, ad børn mín og heimilisfólk mundi verda alls hugar fegid heimkomu minni; en sú fársfulla kona hlód svívirdíngu bædi á sjálfa sig, og svo á þær konur, er eptir hana munu koma, enn þótt sumar þeirra kunni ad vera gódar konur. Svo mælti hann, en eg svaradi honum og sagdi: mikil skelfíng er ad vita til þess, hvad ákaflega mikla óhamíngju sá vídtþrumandi Seifur hefir látid ættmønnum Atreifs standa af kvennarádum, frá upphafi vega þeirra. Af Helenu hlautst þad, ad margir af oss týndust, en Klýtemnestra bjó þér vélrædi, laungu ádur en þú varst heimkominn. Svo mælti eg, en hann svaradi mér þegar og sagdi: þessvegna skaltu heldur aldrei vera mjøg eptirlátur konu þinni, og ekki segja henni frá øllu, sem þú veitst;

sumt máttu segja henni, en sumt verður að fara leynt. En ekki mun kona þín ráða þér bana, Odysseifur; sú vitra Penelópa Ikaríusdóttir er skynsamari og góðráðari en svo. Hún var þá nýgipt, er vér skildum við hana, þá vér fórum í leiðángurinn; þá hafði hún úngan svein á brjósti, sem nú mun samsæti eiga hjá öðrum fulltíða mönnum. Hann er lánsmaður, því faðir hans mun víst heim komast, og fá að sjá hann, og hann mun fagna föður sínum, eins og náttúrlegt er, en konan mín unni mér ekki einusinni þeirrar ánægju, að líta son minn augum, því hún drap mig áður. En eitt ætla eg að segja þér, sem þú skalt festa þér í huga: haldtu skipi þínu leynilega til þíns föðurlands, en ekki að allra manna viti, því nú er ekki konum að trúa framar. En seg mér satt frá því, hvært þér hafið nokkura spurn haft af syni mínum, sem enn er á lífi annaðhvært í Orkómenus eða þeirri sendnu Pýlusborg eða þá í Spörtu hjá Meneláusi; því ekki er sá ágæti Orestes enn á jörðu dáinn. Svo mælti hann, en eg svaraði honum og sagði: hví spyr þú mig þessa, Atreifsson! eg veit ekki, hvært hann er lifs eða liðinn, og er óþarft um slíkt að ræða. Meðan við þannig skiptumst við hryggum orðum, stóðum við báðir harmandi, og grétum fögrum tárum.

Þá kom að vofa Akkilless Peleifssonar, Patróklusss og hins ágæta Antílokkuss, og Ajants, sem bar af öðrum Danáum að vexti og vænleik, og gékk næstur hinum ágæta Peleifssyni. Vofa hins fóthvata Eaks niðja þekti mig, og talaði grátandi til mín skjótum orðum: seifborni Laertesson, ráðagóði Odysseifur! hvaða stórvirki hyggur þú, mikli eljumaður, enn að vinna? hví hefir þú áræðt að fara niður í Hadesar heim, hvar eð

búa fjørlausir draugar, vofur lidinna manna? Svo mælti hann, en eg svaradi honum og sagdi: Akkilles Peleifsson, þú afbragd allra Akkea! eg kom híngad, af því eg þurfti ad finna hann Tíresías, eg vildi vita hvørt hann gæti lagt mér nockurt rád til ad komast til þeirrar grýttu Itøku; því enn hefi eg ei komid vid Akkealand, og enn ei fæti stigid á ættjørd mína, heldur átt í sífeldum raunum. Þar á móti er eínginn þér lánsamari, Akkilles, hvørki fyrri manna né eptirkomendra; því í lifanda lífi virdtum vér Argíar þig jafnt einhvørjum gudanna, en nú hefir þú hér mikid vald yfir draugunum; er því óþarfi fyrir þig, Akkilles, ad una því illa, þó þú hafir dáid. Svo mælti eg, en hann svaradi mér þegar og sagdi: gerdu þad fyrir mig, frægi Odysseifur, vertu ecki ad gylla daudann fyrir mér. Heldur mundi eg kjósa ad lifa í sveit, og vera kaupamadur hjá einhvørjum fátæklíngi, sem ecki hefdi stórt fyrir sig ad leggja, en ad ríkja yfir øllum daudu draugunum. En gjør svo vel og seg mér nockud af mínum gøfuga syni, hvørt hann fór í strídid, eda ecki, til ad berjast þar í brjósti fylkíngar. Seg mér og, hvad þú hefir spurt um þann ágæta Peleif, hvørt hann heldur enn virdíngu sinni hjá Myrmidónum, eda hvørt Hellulandsmenn og Fidju-búar óvirda hann, sökum þess ad hann sé ordinn ellihrumur. Því nú er eg ecki ofan jardar til ad veita honum lid, og ecki líkur því, sem eg var fordum, þá eg héldt vørn uppi fyrir Argía, og færdi til heljar þá hraustustu lidsmenn Trójumanna. Ef eg væri eins núna, og kæmi umstundar sakir í hús fødur míns, þá skyldi eg láta einhvørn þann, sem nú veitir honum ágáng og hnekkja virdíngu hans, finna til afls míns í mínum ósreunilegu høndum, svo honum skyldi bløskra vid. Svo mælti hann, en eg svar-

adi honum og sagdi: aungva spurn hefi eg hast af þeim ágæta Peleifi; en um þinn kæra son Neoptólemus skal eg segja þér allt hid sanna, eins og þú mælist til, því eg flutti hann sjálfur á stóru jafnbyrdu skipi frá Skýrus til hinna fagurbrynhosudu Akkea. Í hvört sinn sem vér áttum rádstefnu hjá Trójuborg, taladi hann allajafna fyrstur, og skeikadi ecki frá umtalsefni sínu; vorum vid, sá godumlíki Nestor og eg, þeir einu, sem bárum af honum. En þegar vér bördumst med vopnum á Trójuvelli, þá var hann aldrei kyrr, þar sem mannþyrpíng eda þraung var, heldur hljóp hann lángt fram fyrir adra, og var þá einginn ákafari en hann, drap hann margan mann í þeim grimma bardaga, og fæ eg ei allra getid, eda nafngreint alla þá, er hann lagdi ad velli, þá hann hélt upp ornstu fyrir Argía. Þó vil eg geta þess, ad hann feldi kappann Evrypylus Telefusson, og med honum marga af Keteum, félögum hans, og hlautst þad af gjöfum þeim, er konu hans höfdu verid gefnar; þann sá eg frídastann mann, næst hinum ágæta Memnoni. En er vér höfdíngjar Argía stigum nidur í hest þann, er Epeus hafdi smídad, og mér hafdi verid á hendur falin umsjón yfir öllu, þá þerrudu adrir fyrirlidar og höfdíngjar Danáa af sér tárin, og skulfu á beinum; en aldrei gat eg séd, ad hann blíknadi hid minnsta í framan, eda stryki tár af kinnum sér. Optar en einusinni bad hann mig ad lofa sér út úr hestinum, þreif til medalkaflans á sverdinu og til þess eirslegna spjóts, og hafdi þúngann hug til Trójumanna. En er vér höfdum eydilagt þá háfu Príamusborg, fékk hann gott hlutskipti og ágæta heidursgjöf, og fór vid þad til skips síns, hafdi hann eckert sár fengid, hvörki af skotum, né af sverdshöggum eda spjótalögum;

og er þad sjaldgæft í bardøgum, því þar bølsótast Ares, og hann gerir sér aungvan manna mun. Svo mælti eg, en vofa hins fóthvata Ækaks nidja gekk burt, og skálmadi stórum á því grøsuga eingi, lá vel á henni, af því eg' hafdi sagt, ad sonur hennar væri afbragd annara manna.

Þá komu enn til mín adrar vofur hinna daudu drauga, voru þær harmsfullar, og sagdi mér hvør frá raunum sínum. En vofa Ajants Telamonssonar var sú eina, sem stód ein sér lángt frá ødrum; var íllt í honum, af því eg hafdi unnid sigur yfir honum, þá vid deildum hjá skipunum um vopn Akkillesʼs, er sú heidvirda módir*) hafdi lagt fram. Eg vildi eg hefdi ekki sigur haft í þeim leik! því vegna vopnanna tók jørdin vid þeim mesta manni þar sem Ajant var, þar hann bar af ødrum Danáum bædi ad frídleik og afreksverkum, og gekk næstur hinum ágæta Peleifssyni. Eg taladi nú til hans blídlega og sagdi: Ajant, sonur hins ágæta Telamons! ætlardu þá ekki heldur eptir daudann ad leggja nidur reidi þína vid mig út af óláns vopnunum? Gudirnir hafa látid þau verda Argíum til tjóns, þar sem þú féllst, slíkur vígturn sem þú varst þeim! Vér Akkear hørmum allt af dauda þinn jafnt og lát Akkillesʼs Peleifssonar. En þar er aungvum um ad kenna ødrum en Seifi, sem hatadi ákaflega herlid hinna herkænu Danáa, og lét því skapadægrid þér ad hendi bera. Gakk nú híngad, konúngur, ad hlýda á ord og tal mitt, og hept ákafa þinn og þitt ríka ged. Svo mælti eg, en hann ansadi aungvu, og gekk inn í myrkheim, þar sem adrar vofur voru hinna daudu drauga.

*) Tetis, módir Akkillesar.

Hann hefdi samt yrdt þar á mig, þó íllt væri í honum, eda þá eg á hann, ef mig hefdi ekki lángad svo mikid til ad sjá hinar vofurnar.

Þar sá eg Mínos, Seifs veglega son, hann sat, og héldt á gullnum sprota, og dæmdi mál draugamna, en þeir voru allt í kríngum konúnginn í þeirri vídhlidudu höll Hadesar, og sögdu fram sakir sínar; sátu sumir, en sumir stódu. Þar næst gat eg ad líta þann afarmikla Oríon, hann var ad reka saman dýr á því grösuga eingi, þau er hann hafdi sjálfur drepid uppi á eydifjöllum; hann hafdi eirkylfu í hendi, sem aldrei brotnadi. Eg sá líka Tityus, son ennar vídfrægu Jardar, hann lá á grundinni, og hafdi undir sér níu stakksvelli; tveir gammar sátu til hvorrar handar honum, þeir grófu sig inn í magálinn, og hjuggu lifur hans, gat hann ei varizt þeim med höndunum. Hann hafdi viljad naudga Letó, hinni veglegu hjákonu Seifs, þá hún gekk til Pýtóar og fór um þá landsfögru Panopu. Eg sá líka Tantalus, hann þoldi hardar raunir; hann stód í tjörn nokkurri, og tók vatnid honum í höku. Þesslega lét hann, sem hann mundi þyrstur vera, en þó gat hann aungvu nád handa sér ad drekka; því í hvört sinn sem hinn gamli madur laut og ætladi ad vökva sig, sogadist vatnid til baka og hvarf, en fyrir fótum hans sást í svarta jördina; var þad ekki einleikid, hvad vatnid þornadi brádt. Uppi yfir höfdi hans héngu ávextir nidur af hálaufgudum trjám, voru þad perutré, kjarneplatré, blómfagrir apaldrar, sæt fíkjutré og græn vidsmjörstré; en er hinn aldradi madur seildist eptir ávöxtunum, svipadi vindurinn þeim upp ad hinum dimmu skýum. Eg sá líka Sisifus, hann átti bágt: hann var ad roga vid geysistóran stein med bádum höndum; hann streittist vid

með hnúum og hnjám, og velti steininum upp eptir ein-um hól; en er hann ætlaði að koma honum upp á brúnina, leitaði þúnginn niður á við aptur, valt þá steininn eins og óhemja ofan á jafnsléttu. Þá tók hann aptur til að velta honum, og herti sig af öllu afli; hann var löðursveittur, og stóð reykjargusan upp af höfði hans.

Þar næst gát eg að líta hinn sterka Herakles; það var svipur hans, því sjálfur gamnar hann sér að veizlum hjá enum ódauðlegu goðum, og er kona hans hin ökklafríða Heba. Klíður mikill var í draugunum í kríng um hann eins og í fuglum, þegar þeir styggjast og þjóta í allar áttir; en hann var líkur dimmri nótt, héldt á berum boga, og hafði ör á streng; hann skygndist um vóðagautslega, og þótti sem hann mundi þá og þá hleypa boganum. Um brjóst hans lá óttalegur fetill, það band var úr gulli, var þar á markað með listileg-um hagleik birnir, villigöltir og glaseygð ljón, fólkor-ustur, bardagar, víg og manndráp. Sá sem þann fet-il hefir tilbúið, og sýnt á honum hagleik sinn, mun víst ei hafa getað tilbúið aðra jafnágæta gersemi. Herakles kendi mig þegar, er hann leit mig, og talaði grátandi til mín skjótum orðum: seifborni Laertessón, ráðagóði Odysseifur! æ, þú vesæll maður, víst munt þú og þola mega eitthvört andstreymi, viðlíka og eg varð að þola ofan jarðar. Eg var sonur Seifs Kronussonar, og þó varð mér aldrei í milli ángurs og ama: því eg var háður mér miklu minna manni, er lagði fyrir mig þúng-ar þrautir; og eitt sinn sendi hann mig híngað til að sækja hundinn, héldt hann, að önnur þraut mundi mér ekki allþýngri verða, en sú. En eg teymdi rakkann

með mér, og kom honum upp frá undirheimum; fylgðu þau mér, Hermes og hin bláeyga Atena.

Að því mæltu gekk hann aptur inn í Hadesar höll. En eg beið kyrr, þar sem eg var, og vildi vita, hvört ekki kæmi einhvörjir fleiri kappar, þeir er fallið höfðu í forneskju. Og nú mundi eg séð hafa enn fleiri af þeim fornmönnum, sem mig lángaði til að sjá, ef ótölulegur grúi af draugum hefði ei áður saman þyrpzt með geysimiklum þys. Varð eg þá fölur af hræðslu, óttaðist eg, að sú göfuga Persefóna mundi senda mér frá Undirheimi haus Gorgóar, hinnar hræðilegu óvættar. Gekk eg þá þegar til skips, og bað förunauta mína stíga á skip, og slá skutfestum; fóru þeir þá þegar upp í, og settust á þópturnar, bar þá straumaldan skipið fram eptir Jarðarstraumnum; var fyrst róðrarleiði, en síðan besti byr.

---

# Odysseifs drápa.

## Tólfta bók.

Inntak: Odysseifur kemur aptur til Kirku, lætur jarða lík Elpenors, og býst til heimferðar; Kirka segir honum þær hættur, sem varast þurfi á leiðinni: Sírenur, þá reikandi hamra, og mjósyndið milli Skyllu og Karybdís. Hann fer frá Kirku, kemst klaklaust fram hjá Sírenum, en Skylla tekur 6 menn hans. Skipverjar neyða hann til að lenda við Trínakríu, þar liggja þeir leingi veðurfastir, verða

loks vistalausir, glæpast þá á nautum Helíusar, og slátra þeim til matar sér. Seifur brýtur skip þeirra í þrumuvedri úti á hafi, farast þar menn allir, nema Odysseifur, hann kemst á skipsflaka til Ogýgíu, hvar Kalypsó bjó.

---

En er skipid bar úr þeim rennanda Jardarstraumi, kom þad inn á bylgjur þess vída hafs, og til Eyar, hvar ed eru híbyli og leikvellir hinnar árbornu Morgungydju, og uppgáuga Helíusar. Þegar vér komum þar, lendtum vér skipinu vid sandinn, og stigum á land í fjörunni, sváfum þar og bidum svo lýsíngar. En er sú árborna rósfíngrada Morgungydja kom í ljós, þá sendi eg menn til húsa Kirku ad sækja lík hins dána Elpenörs. Hjuggum vér þá í skyndi eikarstofna fremst á útskaga nokkurum, og brendum líkid, vorum vér þá hryggvir, og grétum sögrum tárum. En er nárinn var brunninn og vopn hins dauda, urpum vér haug, og reistum bautastein á uppi, og rákum nidur veltelgda ár efst á haugnum; unnum vér ád því verki, þar til lokid var. Kirka vard þess brátt vísari, ad vér vorum komnir frá Undirheimum; bjó hún sig skjótt og fór til fundar vid oss. Þernur hennar komu med henni, og báru braud og gnógt kjöt og skært raudleitt vín. Sú veglega gydja stód í midjum hóp þeirra, og tók til orda: þér erud ofurhugar miklir, er þér hafid kvikir farid nidur í Hadesar heim, og erud tvísvar dánir, þar sem adrir menn deya ei nema um sinn. Heilir svo, takid nú fædslu og drekkid hér vín daglángt, en þegar á morgun, er lýsir af degi, skulud þér sigla hédan, mun eg þá segja ydur til leidar,

og gera ydur í kunnleika allt þad er ydur vardar, svo þér bídid ei tjón af skadlegri heimsku ydur til hugraunar, hvørki á sjó né landi. Þannig mælti hún, en vér létum tilleidast, og sátum þar ad veizlu allan daginn til sólseturs, og høfdum gnógt kjøt og ljúffengt vín. En er sól var runnin og myrkur yfir komid, løgdust skipverjar til svefns vid skutfestar skipsins; en gydjan tók í hønd mér, og leiddi mig afsídis frá féløgum mínum, og bad mig setjast nidur; settist hún þá hjá mér, og spurdi mig tídinda, en eg inti henni allt sem farid hafdi. Sú tignarlega Kirka taladi þá til mín þessum ordum: Þannig eru þá allar þessar þrautir unnar. Hygg nú ad því, sem eg segi þér; mun og gud sjálfur minna þig þar á. Fyrst muntu koma til Sírena, er seida alla menn, er nærri þeim koma. Ef nokkur nálgast Sírenur óvørum, og heyrir saung þeirra; þá mun hvørki kona hans né úngbørn koma til fundar vid hann ad fagna heimkomu hans. Því Sírenur sitja í grasinu, og seida menn med snjøllum saung; þar er hjá þeim hrúga af beinum manna, er fúna þar og þorna upp í skinni. Þú skalt róa lángt út frá þeim; þú skalt taka hunángssætt vax, og hnoda, og drepa því í eyru førunauta þinna, svo einginn þeirra heyri. En ef þú vilt sjálfur heyra, þá skulu þeir binda þig í skipinu á høndum og fótum upprettan á sigluhóptunni, og bregda reipunum um mastrid, svo þú megir hafa þá skemtun ad heyra rødd Sírena; en ef þú fer bónarveg ad féløgum þínum, og bidur þá ad leysa þig, þá skulu þeir binda þig med enn fleiri bøndum. En er menn þínir eru kómir fram hjá þeim, þá eru til tvær leidir; og mun eg ekki gløggt ákveda, hvørja þú skalt halda leidina, skaltu sjálfur ráda þad med sjálfum þér; en lýsa mun

eg nokkud fyrir þér hvorritveggju leidinni. Ann-ars vegar eru framslútandi bjørg, og drynja þar vid óløg hinnar dimmleitu Amfitrítu. Þad kalla hinir sælu gudir reikandi hamra. Þar er svo, ad þar kemst ekki fram hjá fuglinn fljúgandi, og ekki heldur þær hræddu dúfur, er færa fødur Seifi ódáinsfædunа, því sá eggslettl hamar þrífur ætíd einhvørja af þeim til sín, svó fadir Seifur verdur ad senda adra í skard-id, ad ekki vanti í tøluna. Þar kemst ekkert skip, klak-laust af, sem þar fer um, því hafeldurnar og hættuleg-ar eldstrokur sópa med sér jafnt skipsflokum og manna-búkum. Eitt hafskip er þad, sem þar hefir um siglt, þad var hin þjódkunna Argó, er kom siglandi frá Eetes, og mundi þó brimid hafa kastad henni upp ad þeim stóru hømrum, ef Hera, sem unni Jasoni, hefdi ekki greidt før hennar. Hins vegar eru tveir drángar, gnæf-ir annar þeirra upp í vídan himin med hvøssum tindi, sem hulin er dimmu skýi; lídur þad aldrei burr af tind-inum, svo þar er aldrei heidrikt lopt, hvørki sumar né haust. Einginn mennskur madur mundi komast þar upp eda ofan, þótt hann hefdi tuttugu hendúr og fætur, því hamarinn er eggsléttur, og líkur því sem væri hann meitladur. Í midjum dránginum er dimm-úr hellir, gegnt næturheimi, og horfir mót myrkheimi. Ef þér stýrid þar fram hjá skipi ydru, frægi Odyss-eifur, þá skal bogmadur ekki skotid geta øru af skipinu inn í hellirinn. Skylla býr þar í hellirnum, og ýlir hrædilega, er rødd hennar lík ýlfri í nýgotuum hvolpi, en sjálf er hún hrylliled ófreskja; er þad aungvum fagnadarsýn, ad líta hana, og jafnvel ekki, þó einhvør af gudunum kæmi í augsýn henni. Hún hefir tólf óløgulegar lappir og sex afarlánga hálsa, en á hvørjum

hálsi sitr ógurlegur haus, og í margar og þéttar tennur þrísettar, fullar dimmum dauða. Hún liggur hálf inni í hellirnum, en teygir út hausana fram úr þeirri vodalegu gjá. Þar liggur hún á fiski, og leitar fyrir sér gridarlega kríngum dránginn, og tekur höfrúnga og hákarla og stundum stærri fiska, hvaraf sú háttstynjandi Amfitríta elur ótølulega mergd. Aldrei eiga sjófarendur því að hrósa, að þeir hafi heilu og høldnu farid þar um skipi sínu, því það er hennar lag, að hún þrífur sinn mann med hvørjum haus, og sviptir þeim út úr því stafnbláa skipi. Hinn dránguriinn, Odysseifur, er lægri, eins og þú munt sjá, og svo nærri hinum drángnum, að ekki er meir en ørdrag í milli. Á þessum dráng er stórt villifíkjutré allaufgad, en undir trénu er sú ógurlega Karybdis, og sogar í sig það døkkva vatn; þrísvar á dægri sendir hún vatnid í lopt upp, og þrísvar sogar hún það í sig aptur med mikilli ógn. Vildi eg óska, að þig bæri þar ekki að þann tíma er hún sogar í sig sæinn, því jafnvel Jardarskelfir mundi þá ekki fá fordad þér vid fjørtjóni. Kosta heldur kapps um, þá þú ert kominn í nánd vid Skyllu, að róa skipinu sem skjótast út um; því miklu er betra, að missa einúngis sex manna af skipi sínu, en allra saman. Svo mælti hún, en eg svaradi henni og sagdi: seg mér með sanni, gydja, hvørt mér muni med nokkuru móti audid verda að fordast Karybdis, en hefna mín á hinni, ef hún rænir mig mønnum mínum. Svo mælti eg, en hin veglega gydja svaradi þegar: ofurhugi ertu, og enn stendur hugur þinn til hervirkja og aflrauna! ætlardu þér ekki einu sinni að láta undan ódaudlegum vættum? Það skaltu vita, að hún (Skylla) er ekki daudleg, heldur ódaudlegur óvættur, ,vodalegur, illur vidfángs og grimm-

ur, verdur hún ekki í vígi unnin, og aungvu afli má vid hana deila. Best er því ad flýa frá henni; því ef þú dvelst hjá hamrinum, og býst til varnar, er eg hrædd um, ad hún seilist til þín aptur med øllum haus-unum, nái til þín, og hremmi sinn mann med hvørjum kjapti. Nó þú heldur ákaflega mjøg, og ákalla Kra-tæis, módur Skyllu, er ól þenna mannskæda meinvætt; mun hún þá letja hana ad seilast eptir þér optar. Þú munt koma til eyarinnar Trínakíu, þar gánga mørg naút og vænir sandir, sem Helíus á, þad eru sjø hjardir naúta og jafnmargar hjardir frídra sauda, og eru fimmtíu í hvørri hjørd; þessar hjardir æxlast ekki, og eydast þó aldrei. Þeirra gæta tvær gydjur, þær hárprúdu skógardísir, Faetúsa og Lampetía. Sú ágæta Neera átti þær vid Helíus Hyperíonssyni; og er sú heidvirda módir hafdi alid þær og uppfædt, fékk hún þeim búſtad fjærri sér, og lét þær fara til eyarinnar Trínakíu til ad gæta sauda og hinna bjúghyrndu nauta, er fadir þeirra átti. Ef þú lætur þenna fénad í fridi, og fer leidar þinnar, þá mun ydur enn audid verda ad komast til Itøku, þó þér megid nokkurum mannraunum sæta. En ef þú lætur ekki féd í fridi, þá spái eg tjóni skipi þínu og mønnum; og þó þú sjálfur kunnir af ad komast, þá muntu þó seint og med illan leik heim komast, og missa ádur alla félaga þína.

Þannig mælti hún, en brátt kom Morgungydjan gullinstóla; gekk þá sú veglega gydja upp á eyna, en eg fór til skips, og kvaddi til menn mína ad stíga á skip og slá skutfestum; gengu þeir þegar á skip, og settust á þópturnar. En sú hárfagra Kirka, hin veglega gydja, er taladi manna máli, sendi á eptir því stafnbláa skipi gódan førunaut, mjúkan byr seglfylling. Vér hagrædd-

um brátt öllum reida innanborðs, settumst svo um kyrt, og létum vindinn og skipstjórnarmanninn ráda stefnunni. Þá mælti eg harmþrúnginn til förunauta minna: kær: ir vinir! ekki hæfir, ad einn eda tveir einir menn viti þad, sem sú ágæta Kirka sagdi mér ad fyrir oss lægi. Eg skal láta ydur vita af því, svo þad komi ekki ó: vart á, hvört sem vér bidum bana, eda oss verdur audid af ad komast og umflýa dauda og feigd. Hún bad mig fyrst fordast saung þeirra raddfögru Sírena og þad blómvaxna engi. Hún kvad mig einan heyra mega rödd þeirra, en sagdi, ad þér skyldud þá binda mig med sterku bandi, svo eg væri grafkyrr, upprèttan á sigluþóptunni, og bregda svo reipinu um mastrid; og ef eg færi bónarveg ad ydur og bædi ydur ad leysa mig, þá skyldud þér reyra mig med fleiri böndum. Medan eg var ad tjá og telja hvad eina fyrir förunautum mín: um, þá bar þad traustsmídada skip skjótlega ad ey Sír: ena, því meinhægur byr var á eptir. Þá tók snögg: lega af allan byr, og gerdi blæalogn; var sú ládeyda ekki einleikin; stódu menn þá upp, og tóku saman seglin, og lögdu þau nidur í skipid, settust sídan vid árar, og létu sjóinn hvítna fyrir þeim sléttu árarblöd: um. Þá tók eg stóra vaxköku, og skar í smábita med beittum knif, og hnodadi milli handa mér; blotn: adi vaxid skjótt, því sólskin var, enda var knálega hnodad. Sídan drap eg því í eyru á öllum skipver: jum, en þeir heptu mig á höndum og fótum, og bundu mig upprèttan á sigluþóptunni, og brugdu reip: unum um mastrid, settust sídan nidur, og lustu ár: um hinn gráa sæ. Nú vorum vér komnir svo nærri, ad heyra mátti, ef kallad var, því vér rérum hardt; þá urdu þær varar vid, ad þad örskreida skip rendi

þar hjá, og hófu upp snjallan saung: kom híngad, lofsæli Odysseifur, prýdimadur Akkea, legg hér ad skipi þínu, svo þú getir heyrt saunghljódin okkar. Einginn hefir nokkuru sinni farid hér svo hjá á skipi, ad hann ekki hafi fyrst hlýdt á vora sætthljómandi rödd; sá er þad gerir, fer svo á burt, ad hann hefir haft góda skemtun, og er margs fródari. Því vér vitum allar þær þrautir, er Argíar og Trójumenn áttu í hinni vídu Trójuborg ad rádstøfun gudanna; vér vitum og allt, hvad vidber á hinni margfrjófu jørd. Svo mæltu þær, og létu til sín heyra fagra rødd; blódlángadi mig þá til ad hlýda á, bandadi førunautunum mínum med augnabrúnunum, og bad þá leysa mig. Þeir réru þá baksollum, en Perimedes og Evrylokkus stódu þegar upp, og bundu mig med enn fleiri fjøtrum, og herdtu betur á mér. En er skipid var komid fram hjá Sírenum, og ekki heyrdist lengur rómur þeirra eda saungur, þá tóku mínir kæru félagar burt varid, er eg hafdi drepid í eyru þeim, og leystu mig aptur úr bøndunum. En þegar vér vorum komnir frá eynni, sá eg brádlega særokid og stórsjóinn, og heyrdi brimhljódid. Urdu menn þá svo hræddir ad árarnar féllu úr høndum þeim, og skullu allar nidur í straumin, en skipid stód kyrt, þar sem þad var komid, þegar þad mistiródursins. Eg gekk þá eptir skipinu, fór til hvørs af førunautum mínum, og eggjadi þá med blídum ordum: kærir vinir! vér høfum í mørgum hættum staddir verid. Þessi háski, sem nú er fyrir héndi, er ekki stærri en þegar risinn byrgdi oss med sterku afli inn í þeim vída helli, og komumst vér þó þadan fyrir árædi, rádleitni og hugvit mitt; vonar mig, ad ydur muni reka minni til þess. Nú skulud

Þér allir gera eins og eg segi fyrir. Þér skulud sitja á þóptunum, og lemja þá háfu brimøldu med árunum, ef svo mætti verda, ad Seifur léti oss audnast ad komast úr þessum lífsháska. En þad segi eg þér, stýrimadur, og þad skaltu setja á þig, fyrst þú hefir vald á stjórnveli þess stóra skips: þú skalt halda fyrir utan rokid og bodana, en stefna alltaf á dránginn, því annars er hætt vid, ad skipid beri undan á hinn bóginn, fyrr en þig varir, og þú stýrir oss svo í voda. Svo mælti eg, og hlýddu þeir skjótt ordum mínum. En enn þá gat eg ekki um Skyllu, þann óvidrádanlega meinvætt, svo félagar mínir skyldu ei ædrast, hætta ródrinum, og hneppa sig nidur í skip. Þá gleymdi eg þeirri vidvørun Kirku, sem mér hafdi komid svo illa, er hún bannadi mér ad hertýgjast. Eg fór í mín ágætu vopn, tók í hønd mér tvø laung spjót, og gekk upp í lyptínguna fram í skipinu, því eg hugsadi, ad þadan mundi fyrst sjást til Skyllu, bjargbúunnar, sem gerdi mein førunautum mínum. En eg gat hvørgi komid auga á hana, og horfdi eg þó svo lengi allstadar um þann dimma dráng, ad augu mín voru farin ad daprast. Vér løgdum nú fram í sundid, og vorum kvídafullir: því annars vegar var Skylla, en til annarar handar Karybdis, er sógadi í sig þad salta sjóar vatn med mikilli ógn. Í hvørt sinn sem hún gaus, hveradi hún øll upp vellandi, eins og ketill yfir sterkum eldi, en lødrid fauk í lopt upp, og lendti hædst upp á hvorumtveggja dránginum. En er hún svalg í sig aptur þad salta sjóar vatn, þá sást, hvørninn hún hvítfaradi øll innan, øskradi hún hrædilega nidri gjánni, en undir nidri sást í jørdina og svartan sandinn; urdu menn nú følir af hrædslu. En á medan vér høfdum augun á henni, og óttudumst bana

vorn, þá þreif Skylla sex þá hraustustu og sterkustu af førunautum mínum út úr því rúmgóða skipi; og þegar eg leit aptur í skipið til félaga minna, hafði eg vedur af fótum og høndum þeirra, í því þeir voru færdir á lopt. Þeir hljóðudu ángistarfullir, og køll-udu á mig með nafni, það var sídasta ávarp þeirra til mín. Eins og þegar veidimadur, sem stendur á klapp-arnesi, kastar út beitu á lángri dorgstaung til agns fyr-ir smáfiska, varpar út søkku með forsendu, nær seidi, og kastar því spriklandi á land upp: eins brá Skylla mønnunum á lopt, og færdi þá upp að dránginum, og reif þá í sig í hellisdyrunum, en þeir hljóðudu, og, fórnudu til mín høndunum í þeim dauðans naudum. Þetta var sú aumkvunarlegasta sjón af øllu því, sem fyrir augu mín bar í þeim margvíslegu raunum, er eg ratadi í, þá eg kannadi hafleidirnar.

En er vér vorum komnir frá draungunum og hinni vodalegu Karybdis og Skyllu, þá komum vér til Sól-argudsins ágætu eyar; þar voru falleg krúnubreið naut og feitar saudahjardir, er Helíus átti Hýperíonsson. Medan eg enn þá var úti á sjó á því svarta skipi, heyrda eg baulið í nautunum og saudajarminn í fjárhús-unum; kom mér þá til hugar, hvad þau høfðu sagt mér, sá blindi spámadur, Tíresías hinn tebiski, og Eyar-Kirka: hafdi hún lagt ríkt á vid mig, ad eg skyldi varast ad koma til eyar Helíusar mannakætis. Þá tók eg til orda vid førunauta mína med mikilli á-hyggju: gódir félagar, sem ratad hafid í margar raunir! hlustid á mál mitt, medan eg segi ydur spásagnir Tíre-síasar og Eyar-Kirku. Hún lagdi ríkt á vid mig, ad eg skyldi varast ad koma til eyar Helíusar mannakætis; kvad hún þad verda mundu oss til hinnar verstu óham-

íngju. Vil eg því biðja yður að róa skipinu út um eyna. Svo mælti eg, en þeim varð óskapgott við, og svaraði Evrylokkus mér þá þessum óþægilegu orðum: þú ert ofurhugi, Odysseifur, hefir afl ærið, og verður aldrei uppgefinn, og er sem þú sért allur af járni gerður, er þú lofar ei förunautum þínum, sem bæði eru þreyttir og syfjaðir, að koma á land; mundum vér þó geta tilreidt oss þar lystugan kvöldverð á þeirri umflotnu ey; en þú býður oss að leggja frá eynni, og flakka í ráðleysu úti á því dimma hafi á næturtíma, þar sem skipum eru skaðvænlegust þau illviðri, er á detta á náttárþeli; því hvört gæti maður leitað til að forða sér vísum bana, ef maður hefði þá voldugu guði móti sér, og snögglega hlypi á garður, annaðhvört útsynníngur eða hvass útnyrðíngur, sem tíðast eru vanir að valda skipsköðum? Nú skulum vér heldur láta þar nótt sem nemur, og efna til kvöldverðar, og vera hér við skip í nótt, en gánga á skip með morgninum, og leggja þá út á það víða haf. Svo mælti Evrylokkus, og féllust hinir aðrir skipverjar á tillögur hans. Sá eg þá, að guð bjó oss nú einhvörja ógæfu, og talaði eg þá til Evrylokkuss skjótum orðum, og sagði: Evrylokkus! heldur gerist þér nú ráðríkir við mig, þar sem þér veitist allir að mér einum. En nú skuluð þér allir sverja mér þess dýran eið, að einginn yðar skal vera svo ofdirfskufullur að drepa nokkurt naut, né heldur nokkurn sauð, þó vér kunnum að finna hér einhvörn nautaflokk eða mikla sauðahjörð; heldur skuluð þér láta yður nægja að lifa við þá fæðu, er hin ódauðlega Kirka veitti yður. Svo mælti eg, en þeir unnu eiðinn, eins og eg mæltist til. En er þeir höfðu svarið og unnið eiðinn, lögðum vér því rammgjörva skipi í eina vík nálægt læk nokkurum; þar géngu förunautar mínir af skipi,

og bjuggu sér kvøldverd med miklum virktum. En er þeir høfdu sadt lyst sína á mat og drykk, mintust þeir sveitúnga sinna, er Skylla hafdi hremt úr skipinu og etid, og hørmudu lát þeirra, og á því gekk, þar til þeir féllu í fasta svefn. En er lifa mundi þridjúngur nætur, og stjørnurnar voru komnar úr middegisstad, þá lét skýsafnarinn Seifur á koma hvast vedur med offabyl, og huldi skýum jafnt jørd og haf, gerdist þá myrkt í lopti. En er sú árborna rósfíngrada Morgungydja kom í ljós, drógum vér skipid upp í einn vídan helllir, og bjuggum þar um þad. Þar voru fagrir leikvellir og adsetur Vatnagydjanna. Þá setta eg þíng, og taladi í áheyrn allra: kærir vinir! med því matur og drykkur er til á skipi voru, þá skulum vér ekki leggja til þessara nauta, svo vér ekki komumst í neinn vanda; því naut þessi og saudi á Helíus, sá máttugi gud, er sér allt og heyrir ällt. Svo mælti eg, og létu þeir sér þetta segjast. Upp í heilan mánud var sífeldur útsynníngur, og vidradi aungvu ødru en landsynníngum og útsynníngum. Medan þeir høfdu braudid og hid raudleita vín; løgdu þeir ekki til nautauna, því þá lángadi til ad lifa. En er allar vistir voru upp gengnar á skipinu, þá var þeim naudugur einn kostur ad fara á veidar; ráfudu þeir þá um kríng, og veiddu bædi fiska og fugla, sem þeir gátu vid komizt, med bognum aunglum; því sulturinn tók ad sverfa ad þeim. Eg gekk þá upp á eyna, til ad heita á gudina, ad einhvørr þeirra vísadi mér leid heim. Þegar eg var kominn frá førunautum mínum í hvarf upp á eyna, þvodi eg hendur mínar, einhvørstadar þar sem skjól var fyrir vindi, og gerdi bæn mína til allra þeirra guda, er á Olympi búa; létu þeir þá sætan svefn síga á brár mér. En Evrylokkus kom upp á illu tiltæki vid lags-

menn sína, og sagði: heyrið orð mín, raunamæddir fé-lagar! Að sönnu er sérhvörr dauði vesælum mönnum kvíðvænlegur, en þó er sá dauðdaginn aumlegastur að deyja af húngri. Förum því til, og tökum þau bestu af nautum Helíuss, og færum fórn hinum ódauðlegu guðum, er byggja víðan himin. Ef oss auðnast að koma til Íþöku, ættjarðar vorrar, munum vér bráðum geta bygt Helíus Hyperíonssyni ríkuglegt hof, og lagt þar í margar ágætar blótgjafir. En ef hann reiðist út af þeim rétthyrndu nautum, og vill týna skipinu, og veiti hinir aðrir guðir honum fullting til þess, þá vil eg heldur drukkna í sjó og deya allt í einu, en vanmegnast til lengdar á þessari eydiey. Svo mælti Evrylokkus, og gerðu hinir aðrir skipverjar góðan róm að máli hans. Þeir tóku þau bestu af nautum Helíusar, er þar voru í nánd; því þau fríðu, bjúghyrndu, krúnubreiðu naut voru á beit skammt frá því stafnbláa skipi. Þeir slógu hríng um nautin, gerðu bæn sína til guðanna, og plokkuðu grænn blöð af hálaufgaðri eik, af því þeir höfðu ekki hvítt bygg á því þóptusterka skipi. En er þeir höfðu beðizt fyrir, skáru þeir og slógu nautin, tóku frá lærin, og tvísöfðu þau í netjunni, og lögðu hráa bita þar ofan á. En þar eð þeir höfðu ekkert vín til að dreypa yfir brennifórnina, þá dreyptu þeir vatni, og steiktu svo öll innyflin. En er lærin voru brunnin, og þeir höfðu neytt slátursins, brytjuðu þeir hitt kjötið, og stúngu því upp á teina. Þá hvarf sá fasti svefn af augabrám mér, og gekk eg þá ofan til strandar, þar sem skipið var; en er eg átti skammt til hins borðróna skips, lagði sætan blótilminn allt í kríngum mig, kallaði eg þá grátandi upp til þeirra ódauðlegu guða: faðir Seifur, og þér aðrir sælu, eilífu guðir! þér

hafið stúngið mér meinlegan svefnþorn, meðan förunautar mínir, sem við skipið voru, hafa haft mikið stórræði með höndum. Sú síðmöttlaða Lampetía fór nú hvatlega til Helíusʼs Hyperionssonar með þá fregn, að-vér hefðum drepið niður nautin fyrir honum; en hann brást reiður við, og tók til máls í viðurvist allra guðanna: faðir Seifur, og þér aðrir sælu, eilífu guðir! Lát förunauta Odysseifs Laertessonar gjalda þess, að þeir hafa lagt ómildar hendur á naut mín, og drepið þau; hafði eg opt gaman af þessum gripum, bæði þegar eg stê upp á þann stjrnda himin, og þegar eg hverfði mér ofan af himni aptur til jarðar. En vilji þeir ekki gjalda mér sæmilegar bætur fyrir nautatökuna, skal eg fara í Undirheima, og lýsa þar fyrir draugunum. Skýsafnarinn Seifur svaraði honum og sagði: þú skalt, Helíus, lýsa ódauðlegum guðum og þeim dauðlegu mönnum á hinni kornfrjófu jörð; en eg skal ljósta þeirra fljóta skip með björtu reiðarslagi, og kljúfa það í smátt, miðt á því dimma hafi. Frá þessu heyrða eg þá hárprúðu Kalýpsó segja, en hún kvað Sendiguðinn Hermes hafa sagt sér. En er eg kom niður til sjáfarins, þar sem skipið var, gekk eg mann frá manni, og deildi á þá; höfðum vér nú eingin skopuð ráð, því nautin voru dauð. En brátt þar eptir létu guðirnir mikil undur fyrir þá bera: nautshúðirnar tóku til að skríða, og kjötið, bæði það steikta og hráa, mudlaði á teinunum, og var hljóðið í því líkt nautabauli.

Mínir kæru félagar tóku síðan þau bestu naut Helíusar, og sátu að veizlum í sex daga. En er Seifur Kronusson lét sjöunda daginn yfir koma, þá slotaði vedrinu; stigum vér þá þegar á skip, reistum siglutréð, og drógum upp þau hvítu segl, og lögðum út á það

víða haf. Þegar vér vorum komnir frá eynni svo lángt, að hvørgi eygðist til landa, og ekkert sást annað en himin og haf, þá lét Kronusson svartan møkk upp stíga uppi yfir því rúmgóða skipi, og døkknaði sjórinn af honum. Skipið hljóp ekki lengi eptir það, því allt í einu brast á hvínandi útnyrðíngur með geysimiklum stormi. Vindbylurinn sleit sundur báða siglustagina, féll siglutréð þá aptur í skipið, og allur reiðinn kastaðist ofan í kjalsogið, en tréð kom í høfuð stýrimannsins, sem var í skutnum, og mølvaði sundur hvørt bein í høfðinu, steyptist hann þá ofan úr lyptíngunni, eins og kafhlaupari, og var steindauður. Með það sama þrumaði Seifur, og varpaði reiðarslagi á skipið; þáð hríngsnerist allt við, og fyltist af brennusteini, þá það varð lostið af reiðarslagi Seifs; þá féllu skipverjar útbyrðis, og velktust í bylgjunum kríngum það svarta skip, eins og krákur, og lét guð þeim ekki heimkomu auðið verða. Eg hafðist við á skipinu, allt þar til er brimið hafði leyst byrðínguna frá kjølnum; skolaði aldan þá lausum kilinum. Nú skaut báran siglutrénu að kjølnum, en á trénu lá ráband úr nautsleðri; með því batt eg hvørttveggja saman, kjølinn og siglutréð, settist svo upp á, og hrakist í ofviðrinu. Þá slotaði þeim geysimikla útnyrðíngs stormi, og rak á meinlegan útsynníng, til þess mig enn skyldi bera aptur að þeirri voðalegu Karybdis. Eg hrakist alla nóttina, en um sólaruppkomu var eg kominn að Skyllu dráng og hinni óttalegu Karybdis. Hún sogaði nú í sig það salta sjóar vatn, en eg seildist þá upp að því háfa villifíkjutré, og héldt mér føstum við það, og hékk, eins og leðurblaka; hafði eg þar aungva støðugu fótfestu eða viðspyrnu, því viðarræturnar voru lángt fyrir neðan, en greinarnar, sem bæði voru lángar og

miklar, bløktudu hátt uppi, og flygdu á Karybdis. Eg héldt mér fastatøkum og beid þess, ad hún spýi, upp aptur siglutrénu og kilinum. Um sídir komu tréni upp, og var mig þá farid ad leugja eptir þeim. Í þad mund sem gjørdarmadur sá, er sker úr mørgum þrætumálum, þeim er bændur eigast vid, rís upp á torginu og gengur til snædíngs: rétt um þad leitid skaut upp trjánum úr Karybdis; slepti eg þá høndum og fótum, og lét fallast nidur, og skall ofan á midjan svelginn utan til vid þau laungu tré, settist svo upp á þau, og réri á bædi bord med høndunum. Sídan hraktist eg í níu daga, en tíundu nóttina létu gudirnir mig ad landi bera vid eyuna Ogygíu, þar bjó sú hár-fagra Kalypsó, máttug gydja, er taladi manna máli. Hún tók vid mér bádum høndum, og héldt mig vel. En hvad er eg ad segja þér frá þessu? Eg sagdi þér og þinni skøruglegu konu frá því ígær í herberginu; en þad er ekki eptir skapi mínu ad ordlengja þad, sem eg einusinni hefi fullgløgglega frá sagt.



# Leidréttingar:

5. bók, blſ. 7. l. 26. les: hvørgi mun eg flytja hann, því eg hefi eingin árbúin ſkip eda rædara, er flytja hann yfir þann o. ſ. fr. 8. bók, blſ. 46. l. 30., eptir Þolad bæt vid: bædi fólkorustur; blſ. 48. l. 3., af les ad; blſ. 55. l. 26., gaf les gef.

Ad aflokinni Embættis-gjørd í Bessastada kirkju, þann 4da Febrúarii 1838, verdur af Skólanum Hátíd haldin í minníngu Fæíngar-dags vors allranádugasta Konúngs Fridriks Sjötta; bidjum vér því, med þessu Bods-riti, audmjúklega og ástsamlega Skólans Forstjóra, og adra Skóla-vini og velunnara, ad þeir vilji ásamt oss þessa Hátíd halda, Gudi og Konúnginum til verdugs lofs og heidurs.

Bessastødum þ. 21. December 1837.

---

